# Bodsrit

til ad hlusta á

# Þá opinberu yfirheyrslu

í

## Bessastada Skóla

þann 22 — 29 Maí

**1844.**

---

1. Fjøgur gømul kvædi, útg. af S. Egilssyni.
2. Skólaskírsla af *Lector Theol.* J. Jónssyni R. af Dbr.

---

Videyar Klaustri,

Prentad á kostnad Bessastada Skóla.

1844.

# Formáli.

Þau 4 andleg fornkvædi, sem hér prentast, hefir Hra. Cand. Philos. Jón Sigurdsson í Kaupmannahøfn uppskrifad eptir Skinnbókinni No. 757 (í 4to), í fornritasafni A. Magnússonar, og stendur í Skb. fyrst þad kvædisbrot, sem eg kalla Heilagsandavísur, þá Leidarvísan, þá Líknarbraut, þá Harmsól. Afskrift þessi var ítarlega vøndud, því J. Sigurdsson hefir bædi sýnt í afskrift sinni, hvar ord voru bundin í Skb., og tekid framm, hvar vafi var á hvørsu lesa skyldi, og hvad honum þætti þá líklegast eptir stafagjørd frumritsins, sem ekki er óvída mád og sumstadar ólæsilegt; líka hefir hann á støku stødum framsett heppilegar getgátur, sem eg hefi tilfært undir skammstøfudu nafni hans (J. S.).

Harmsól (Has.) er idrunarkvædi. Inntakid er þetta: Skáldid heitir á gudlega adstod (er. 1—3), segir hvør naudsýn sé á ad játa brot sín, idrast þeirra og leita Guds miskunar (4—6), telur upp afbrot sín mørg í ordum og verkum (7—16), og lýsir miskun Guds í sendíngu Sonarins í holdid (17—19). Í Stefjamálunum lýsir Skáldid pínu og krossfestíng Krists (21), idran ræníngjans á krossinum (22—24), dauda

Krists til hjálpar mønnum (27), upprisu (28) og uppstigníng (29), komu hans til dómsins, og um dómsdag (31—40); rædur til þess ad sættast vid Gud, og fresta því ekki (41): því þad skuli úngur nema, sem gamall eigi ad fremja (42), lífid sé stutt (43) og daudastundin óvís (44). Í nidurlagi kvædisins telur Skáldid nokkur dæmi helgra manna, sem med idrun hafi hlotid miskun Guds (46—47): Davíds konúngs (48—49), Péturs postula (50—51), Maríu (52); huggun af því (53); heitir á Gud til miskunar sér (54—58), á Maríu (59—61) og helga menn til traustS og árnanar (62—63); nafn kvædisins (64): gódar óskir (65).

Líknarbraut (Lb.) er lofkvædi um hinn helga kross (1. er.); skáldid heitir á Gud til fullríngs, ad ord sín megi koma mørgum manni til andlegs gagns (2—7); bidur, ad gódir menn veiti sér bæna fullríng (8); segir, hvørs vegna hann yrki þetta kvædi bædi gladur og hryggr (9—10); upphvetur, ad elska Krist (11), er lét berast híngad í heim og tók sjálfviljugur á sig píslir fyrir syndir manna (12). Stefjamál (13—29): Krists pína (14. 15), krossfestíng (16); María vid Krossinn (18); sídu sárid (20); daudi Krists (21), nidurstigníng til helvítis (22), upprisa (23), himnafør (24); sídasti dómur, hvar krossinn verdur sýndur (26. 27): adskilnadur gódra og vondra (28. 29). Nidurlag (30—52); lof krossins, sem skáldid kallar lykil himins (31), blóma helgra dóma (32), farkost Guds barna til lífs hafnar (33), himnastiga

(34), himnabrú (35), vog (36), altari (37); kraptur og tákn krossins (38—41); søgur upphvatníng, ad minnast dauda Krists á Krossinum (42—46); kvædislaun (47—50); heiti kvædissins og gódar óskir (51. 52).

Leidarvísan (Lv.), um helgi sunnudagsins. Inngángur: Skáldid heitir á Prenninguna ad styrkja mál sitt (1—3), bidur svo hljóds, ad menn hlýdi kvædinu (4—5); himnabréf um sunnudaginn, og inntak þess (6—12 *). Stefmál (13—33); talin stórmerki sunnudagsins: sköpun englanna (14), fridur milli Guds og manna (15), Nóa ørk stadnæmdist í flódinu (16), Gydíngar fóru yfir hafid rauda (18), gefin Tíulaga bodord (19), vatn af hellunni og Manna (20), bodunardagur Maríu (22), Krists fæding (23), skirn Krists (24), Kristur snéri vatni í vín (26), kraptaverk med 2 braudum og 5 fiskum (27. 28), Krists innreid í Jerúsalem (30), upprisa (31), gjøf heil. Anda (32). Nidurlag (34—45): dómsdagur (35), ágæti sunnudagsins (36); upphvatníng til sidbóta: elska til Guds

*) Þessa bréfs getur í E. C. Werlauffs *Symbolis ad geographiam medii ævi Havn.* 1821, bls. 56: „þar sudr frá vidr vogginn er alltari *Sancti Simeonis*, þar kom ofan bréfit gullritna. Og enn ljósar í Kirjalafsøgu (*Symbol. p.* 60. *annot.* 3): Þar stendur Símeons Kirkja, ok er þar vardveittr handleggr hans yfir altarinu: Þar kom ofan bréf þat, er sjálfr Drottinn ritadi med sínum hondum gullstofum um hinn helga sunnudag. Hvergi seigist Werlauff hafa fundid bréfs þessa getid annarsstadar.

(37–38), bæn (39—42); nafn kvæðisins og höfundur þess (43—44); álykturnarorð (45).

Um tvö af þessum kvæðum, Harmsól og Leiðarvísan, er sagt, hvorr þau ort hafi. Gamli Kanúki orti Harmsól, eptir yfirskrift kvæðisins í Skb. En hvar Gamli hefir verið Kanúki, og hvænær hann hefir uppi verið, hefi eg eigi getað fundið. Um Kanúka má annars lesa Ísl. Kirkjusögu Finns Biskups, 2, 142, a, 373—4, a, 384—5; Holbergs Almindel. Kirkehist. 1, 318. 351: M Stephensens Klausturpóst fyrir árið 1818 bls. 33—36. A 13. öld er getið Orms prests, kanúka í Þykkvabæ, og Magnúsar, kanúka í Videy, þeir voru bræður Arna biskups Þorlákssonar (Staða-Arna), sjá Sturl. 3, 183.

Í Leiðarvísan, 43. og 44. erindi, vísar til, að Brandur nokkurr hafi ort þetta kvæði eptir undirlági göfugs prests Runólfs. Gizka mætti, að þessi Runólfur hafi annaðhvort verið Runólfr Sigmundarson, sem var ábóti í Veri (Þykkvabæ) 1268—1306, eða Runólfur Olafsson, ábóti í Videy 1250-1299, lærisveinn Brands biskups Jónssonar, sem báðir voru lærdómsmenn og lærdómsvinir, og tók Runólfur í Veri saman æfisögu Augustini (Ísl. kirkjus. 4, 124), en lét Grím prest Hólmsteinsson rita Jóns sögu Skírara (Ísl. kirkjus. 1, 584: 4, 59); þykir Finni Biskupi líklegt, að þessir ábótar hafi upphvatt múnka þá, er þeir áttu yfir að ráða, til að semja ein og önnur lærdómsverk (sst. 4, 124). En að Brandur sá, sem orti Leiðarvísan, hafi múnkur verið, þykir sem

ráða megi af orðatiltækinu í Lv. 19, „friðr af föstu mæðiz", en þótt þetta orðatiltæki virðist stælt vera eptir Davíðs Sálmi 109, 24. Þyki nokkurum það að þessari getgátu, að Runólfur er hér ekki kalladur áboti, heldur göfugur prestur, þá gizki hann á Runólf Dálksson Þorsteinssonar, bróðurson Ketils biskups, er uppi var á miðri 12. öld. Um hann segir Sturl. 2, 95 eptir handritinu Lv: „Þar (á Helgafelli) var á vist göfugr kennimaðr Runólfr prestr Dálksson Þorsteinssonar, bróður Ketils biskups, ok var hann hinn mesti lærdómsmaðr ok höfuð-klerkr". Hann er og talinn meðal presta í Vestfirðíngafjórðúngi í Prestatali í Ísl. Sögum, 1. B. bls. 384 (útg. Khfn. 1843).

Þegar litið er á skáldskaparmál og kveðskap þann, er kvæði þessi með sér bera, þá sýnist ekki mega gera þau ýngri, en nú var ávikið, nefnil. ofarlega á 13. öld eða öndverdlega á 14., því kveðskapur, sem og orðaskipan og málsgreina í kvæðum þessum er mjög í þá mind, sem títt var hjá elztu fornskáldum: er hér allvíða flókin orðaskipan, orðum í sumum málsgreinum tvístrað, og fleirum málsgreinum blandað saman, sumum hleipt inn í aðrar (stælt), kenníngar mjög viðhafðar og allvíða sundurdreifðar. Hér til tel eg það, a) þegar smáorðum, sem eðlilega eiga saman við önnur orð (t. d. stefnuorðum), er mjög sundrað frá þessum, t. d. **því eina**, Lv. 4: **án kaup**, Lv. 12: **án þína mesta miskunn**, Haf. 65; eða þegar tvö nöfn, sem saman eiga, standa lángt hvert frá öðru, t. d.

miſkunar fadm, Lb. 45. Lb. 33 á ſaman: ertu fljót, farſæl ſkeid und þrælum fróns-konúngs (Kriſts), ok frami (þ. e. leidbeiníng) ítrum firdum á vit ſtrandar fóſtrlands. Hv. 6 á ſaman: Þvi hrinda gladir Gudsmenn, þeir er vel renna lífs braut, lymſku grandi djøfuls. Lv. 10. á ſaman: vørdr vallræfrs (Gud) kvad, ek mun til dauda kaſta ættum virda í alla lidu. Samtengíngarordid og er ſkilid frá þeim ordum, er þad á ad ſamtengja, t. d. Haſ. 56: margríkr jøfurr fleygs foldar ægiſs (Gud!), þeſs at meiri líknar ok fridar á ek at bidja þik ſjálfan mér (til handa); Lv. 30, óhrædinn lýdr vann þar á ládi borid pálma og litklædi fyrir ríkjan ødlíng lopthjálms (Kriſt); á þeſsum ſtad ſtendur ok, ſem á ad tengja ſaman pálma og litklædi, fjórum ordum á undan hinu ſídara, en tólf ordum undan því fyrra; ſjá og Haſ. 22: Lb. 5. b) málsgreinum blandad ſaman, Hv. 1. 8: Lv. 1. 40. 44: c) ſtælt, Haſ. 41. 42: Lv. 4. 5. 39. 45: Lb. 11. d) Sundurſlitnar kenníngar, Haſ. 9. 10. 11. 12. 14. 43. 61: Lb. 2. Ad þeſskonar fornum ſkáldſkaparhætti fóru menn þegar ad finna fyrir og eptir midja 14. øld, þótti midur hæfa i helgum kvædum, ad yrkja ſvo óljóſt. Í Kvædi Gudmundar biſkups, er bródir Arngrímr orti (1345), ſtendur því í 2. erindi:

> Rædda ek lítt vid reglur Eddu
> rádin mín; ok kvad ek' ſem brádaſt

vísr þær, er vil ek ei hrósa;
verkinn erat svo mjúkr í kverkum.

Eysteinn, sem kvad Lilju 1358, segir í

97. er. Vardar mest, til allra orda
undirstadan sé réttlig fundin,
eigi gløgg þó Eddu regla
undan hljóti ad víkja stundum.

98. Sá er ódinn skal vandan velja,
velr svo mørg í kvædi at selja
hulin fornyrdin, at trautt má telja;
tel eg, at þat má skilníng dvelja.

En ljósast segir þad Arni ábóti Jónsson ad Múnka-
þverá (1371—79) í Gudmundardrápu 78. erindi:

Kfirmeistorum mun Eddu listar
allstirdr sjá hródr virdaz,
þeim er vilja svo grafa og geyma
grein klókasta frædibóka.
Lofi heilagra lízt mér hæfa
ljós ritnínga sætra vitni;
en kénníngar auka mønnum
aungvan styrk né fagnad myrkvar.

Øll þessi kvædi eru Stefjadrápur. Stefjadrápum
er svo háttad, ad þær samanstanda af þremur hlutum:
inngángi, Stefjamálum, og nidurlagi (sem kallast Slæmr).
Eg íminda mér, ad þegar stefjadrápa er regluleg, þá
eigi stefjamálin ad vera réttur midhluti drápunnar, og
inngángur jafnmørg erindi og nidurlag. Þessa er líka

nákvæmlega gætt í *Leidarvísan*, hvar inngángur og nidurlag er sín 12 erindi hvort, en stefjamálin 21 erindi. Eins er í Gudmundardrápu eptir Arna ábóta, og í Lilju. Í Harmsól er inngánguriun 19 er., nidurlag 20, má þar álíta sídasta erindid sem nokkurskonar drag edur aukavísu, eins og í *Kvædi* Gudmundar biskups eptir Arngrím, og í Høfudlausn Egils Skallagrímssonar*). *Líknarbraut* er í þessu frábrugdin, því þar er inngángurinn 12 erindi, en nidurlagid 23, hvad ed í þessu kvædi kemur til af því, ad skáldid byrjar ekki fyrr á yrkisefni því, sem hann hafdi lofad ad kveda um, en í nidurlagi drápunnar. Hvad Stefjamálunum

*) Eg hefi lengi furdad mig yfir, ad Geisli (Olafsdrápa, Vattardrápa), svo vøndud drápa, kvedin af Einari Presti Skúlasyni og framflutt í Nidaróss kirkju 1152, ad vidstøddum Konúngunum Eysteini, Sigurdi og Inga Haraldssonum, og Jóni erkibiskupi Birgissyni, og allri alþýdu Þrænda og Nordmanna, skuli ad þessu leiti vera svo óskipuleg, ad inngángurinn er þar 17. erindi, nidurlagid 26 (eptir Hkr og Fms. 5). En eg þykist nú med sjálfum mér sannfærdur um, ad 60., 61., 62. og 63. erindid á ad standa á undan stefjamálunum næst á eptir 17 erindi, hvar efnid sýnir ad þau eiga heima, og verdur vid þad betra samband milli 64. erindis og hins 59. og hinna undanfarandi. Verdur þá í Geisla inngángurinn (3. 7 =) 21 erindi, nidurlagid eins, og sídasta vísan ad auk, sem eingaungu er stílud til Eysteins konúngs. Og sídan Jón Sigurdsson fann 3 erindi ný af Geisla (sem eiga inn næst á eptir 30. er.) í Konúngabók Bergs ábota í Stokkhólmi, verda Stefjamálin í Geisla 28 (þ. e. 3. 9 + 1) erindi. Sýnist, sem erindaskipanin eptir þessum tølum sé svo sett af skáldinu med ásettu rádi; og eins er í Lilju.

vidvíkur, þá er stefid í Leidarvísan ein vísa heil, og er fyrst þrítekinn fyrri vísuhelmíngur, og settar 3 vísur milli hvørs stefs, og þarnæst hinn sídari vísuhelmíngur á sama hátt. Í Harmsól er stefjum eins hagad, nema hér eru 4 vísur milli stefja. Í Líknarbraut er til stefs hafdur einn vísuhelmíngur, og fimmtekinn, og 3 vísur milli stefja. Í kvædisbrotinu Hv. sést, ad 3 vísuhelmíngar eru hafdir til stefja, og 7 vísur milli hvørs. Ad Slæmr merki nidurlag eda sídasta hluta einnar drápu, þann er næst kemur eptir Stefjamálin, þad má (auk Haf. 46., og Lv. 34. er.) sjá af þessum stødum:

1) Kvædi Gudm. bps., er bródir Arngrímr orti, 41. erindi, næst eptir Stefjamálin:

Máttugr, gefþu í slæm hinn slétta
snildar ord (af þinni mildi
æztri blómaz allir heimar)
allhródigr mér fadir þjódar.

2) Maríukvædi, eptir Skb. No. 757, 4º A M (No. 5), er so byrjar: Heil gledíz millde módir; þar stendur næst eptir Stefjamálin í 28. erindi:

Kaup veitti dýrt fir drápu
drottníng himins ok gotna;
hródr nemi høldar kvædis:
hef ek slæm, en lyk stefjum.

3) Rekstefja 24. erindi:

Hjørflóds hnykkimeidum
hér er of slæm at dæma

hnigreyrs harda stóran:
hefi ek þar lokit stefjum.

Af því mér var ekki kunnug þessi merking ordsins Slæmr, þegar eg útlagdi Rekstefju í Scripta hist. Isl. 3, 244, þá tók eg þar rángt upp þenna vísuhelming, sem eg vil hér leidrétta, og skal svo upp taka: Hér er hnykkimeidum hjørflóds hnigreyrs (mk.) at dæma of harda stóran slæm.

# Harmsól,

## er Gamli orti, Kanoki.

1. Hár stillir lúktu, heilli,
hreggtjalda mér, aldar,
upp, þú er allar skaptir,
ódborgar hlid, gódu:
mjúk svo ad mættig [1] auka
mál gnyundum stála
miska bót af mætu
mín fulltíngi þínu.

2. Eingi má elda sløngvir
(allvist er þad) Mistar
makleg ord til mærdar,
minn drottinn, þér finna:
þars, elhallar, øllu
ertu, skýrr konúngr, dýrri,

[1]) Annadhvort er mættig s. s. mætta eg, og þá er miska bót s. s. at miska bót, til miska (synda) bótar; eda mættig er s. s. mætti nefnil., svo at mín mjúk mál mætti auka stála gnyundum miska bót af þ. m. s.

rómu linns því er runnar
rammglyggs megi of hyggja.

3. Sendu ydvarn anda,
einskepjandi, hreinan
mér, þann er mitt of færi
munar grand hédan, landa!
alls megu ekki þollar
án fremja þers hanum
síđa viggs, er seggjum
sída bót af þvi hljótiz.

4. Mér vil ek ok eirar
(oss byrjar þad), hnossa
himins stillandi, hollrar,
hæst [2] misskunnar æsta:
þótt óverdum ordum
(ítr fylkir mik líta)
víst, firir vos ok løstu,
(vedrhallar) þik kvedja.

5. Þú býdr øll [3] med idran,
einn Kristr, vidum Mistar
linns fir lærdum mønnum
lýti sín at týna;
ok, hábrautar, heitir,
hreggvørdr, þegar seggjum
sannri líkn og sýknu,
snjallr, fir vos ok galla.

---

[2]) Þ. e. hæstr, ad burtkøstudu errinu. [3]) Min getgáta; Skb. hefir hér olld.

6. Ofs verdur ei [4] nema þessum [5]
aldr varn bodum haldim,
(menn búist mørgu sinni)
meiri ógn (vid þeirri):
hverr þvíat hætt rád horfa
hljóms á efsta dómi
upp fir allri skepnu
ósøgd koma løgdis. [6]
7. Ungr vøndumz ek (ýngvi, [7])
opt erfilega [8] at hverfa
(lítt gáda ek þá þjódar,
þín) eptir vilja minum;
en snéra eg jafnan mínum, [9]
íllt rád þá er mig vélti,
dyrdhittandi drottinn
dádrakkr, vid þér hnakka.
8. Of løskvan hef [10] æsku
aldr varn spanid [11] sjaldan
(barkat ek blóm á verkum
brádgert) frá ódádum:

---

[4]) s. s. æ, ávallt, jafnan. [5]) Min getg.; Þessu, Skb. [6]) Þ. e. Þvíad hverr ósøgd (ójátud) hætt rád afbrot (syndir) løgdis hljóms horfa (manna) koma upp fir allri skepnu á efsta dómi. [7]) Min getg.; ýngri, Skb., en hér á saman ýngri þjódar, konúngs manna, gud. [8]) J. S. heldur, ad erfilega sé s. s. herfilega, og mun þad rétt; annars yrdi ad taka opt erfilega fyrir ofderfilega, ofdjarflega. [9]) getg.; í Skb. sést ekki nema ...ne. [10]) getg.; Skb. hof; kannske réttara væri hefum. [11]) getg.; Skb. spanedir, med bundnu ir.

ítr, þá er opt á móti
ófríd rísu blídum,
mærdvinnandi manna,
mín verk bodum þínum.

9. Gerda ek opt í ordum
(eljunsterkr), sem verkum
(hreggs bjartloga) ok hyggju,
(hróts) í gegn þér (drottinn!).
Þræll hefir þinn í allan
þann, lífgjafi[12] manna,
ofs[13] grøndugrar andar
ástsnaudr hratat dauda.

10. Þinn hefir þúngleg unnit
(þat færir mjøk[14] færi
syndugr þjónn (frá svinnu),
sóltjalds konúngr (aldir).
Mælta ek mart, þad er spillti
(mætr, vissir þat, gætir
ranns) í røsan[15] minni
(rødulls) fir mér ok ødrum.

11. Okynnin gat ek, annan,
optsinnis þar vinna,
(vigar[16] ljóss) er ek vissa
(vedr) þrótt á mik (Drottinn!).
Lítt bar ek ønn, og ótta,

---

12) getg.; líf=gjafa, Skb. 13) getg. ofs, Skb; ofs þ. e. mjøg. 14) get.; Skb. mic, bundid. 15) þ. e. rausan, athugalaust tal. 16) þ. e. vegar: vedr=vegr, lopt, himinn, hans ljós, sól.

undgjálfrs, fir mér sjálfum,
grálinns geymirunnum,
gladr þá ek dœmdag adra.
12. Bergda ek brjósti sørgu,[17]
(byrjar hlunns) sem munni,
(hreins) ok holdi þínu
(huggódr jøfurr!) blódi.
Þó sé ek, þeingill skýja
þrifskjótr, (megin-ljótir
hagir sýnast mér mínir
margir) þar til bjargar.
13. Lét ek í ljós fyrir gautum
láds nøkkurar dádir
laxa fróns, en ek leynda
løskum þátt. sem ek mátta:
seggja kind at sýndiz
(setrs) þokka mun betri
(vísi hár), en veri
(vel kunnum því, sunnu!).
14. Henda ek hverjar stundir,
hlakkar bords, er ek þordak,
miska rád sir meidum,
minn lífgjafi, at vinna.
Midr óttudumz ydra[18]
ósjaldan, gramr tjalda
(því var-a hagsleppt) hyrjar
heids[19], en gumna reidi.

---

[17]) Þ. e. saurgu, saurugu, óhreinu. [18]) get.; ydrar, Stb. [19]) get.; sídasti stafurinn er ógløggur í Stb.

15. Hét ek opt fir lid láta
lasta verk til fasta
þér, en þekkjaz dýrar,
þeyláds konúngr, dádir;
enn snerumz ey[20] til minna
aptr, landreki krapta,
(er-a vandi sá) synda
(sjaldreyndr kyni aldar).

16. Hæfir[21], at hvern of risjak,[22]
harri minn, til fjarri,
grandi firdr, þann gørdag
geig, er ek þik sé eigi:
elsku kudr, alls ydvarr,
ødlíngr, hefi ek, rødla,
aumlegr þræll í øllum
afgerdum mik vafdan[23].

17. Hverr er greppr sá er geira[24]
grunnudigr þér unni
(slíkr høfum[25] synda auki
sótt), heimstødu drottinn!
Þú bidr øld, en adrir,
almáttigr gud, sátta,
ýta ferd at yrdi
alldýr, søkum valda.

18. Itr, lýstir þú ástar,

---

[20]) þ. e. æ, ávallt. [21]) getg.; hefir, Skb. [22]) getg.; risjat, Skb. [23]) getg.; vafdir, Skb. [24] þ. e. gjørsamlega, fullkomlega. [25]) s. s. høfumk, høfumz, hefir mik: slíkr (sami) synda auki hefir sótt mik.

elferkjar gramr, merki
láðs til lyptimeiða
linns í hérvist þinni.
Guð réð guðdóm ydvarn
(glataz mein af því) hreina
(hølda liðs) at hylja
hár manndómi várum.

19. Þú vart, mæztr, frá meyju
(mikil dýrð er þat fyrðum
hauðrs) í heim með lýðum,
hildíngr, borinn, mildi [26].
Sæll, bartu óstyrkt alla,
ágætr, ok meinlæti,
skrýðir skýja slóðar
skríns, á líkam þínum.
(Stefjamál)

20. Skjøldúngi erum skyldir
Skýja tjalds ok aldar
greitt, sem gøfgast mætti,
grandlausum stéf vanda:
Ern skóp hauðr ok hlýrni
heims valdr, sem kyn beima,
ørr er ok øllu dýrri
elfetrs konúngr betri.

21. Endr vartu barðr ok bundinn,
buðlúngr, mégin þúngar,
hlýrnifs elds, af høldum,

[26]) Eg tek hér saman: mæztr hildíngr mildi (e. et.); sem mér þótti viðfeldnará en mildi-mæztr hauðrs hildíngr.

hár, fyrir sektir várar.
Enn léztu, øldu runna
ángrstrídir þik sídan,
viggs, medal vondra seggja,
vegligr, á tré negla.
22. Þjófr annar tók þanneg,
þrifvaldr gøfugr aldar,
(sál var hans oss ok eleg
ósæl[27]) vid gram mæla:
nú sýn afl, ens eina[28]
alls er þú guds son kallaz,
ok med øflgu ríki,
oss, stíg nidr af krossi!
23. Ydr nam annar kvedja
illvirki svo, stillir
háss, þá er hrædiz píslir,
hrídar nausts, med trausti:
minnstu, mildíngr sunnu,
mín, kvad bauga tínir,
þitt[29] (á ek hag til hættan
heldr) er þú kemr í veldi.
24. Hlaut af ydr, sem adrir,
audbrjótr meginskjóta,
láds[30], þeir er løstum eyda,
líkn, skepjandi ríki!

---

[27]) Þ. e. sál hans var oss (13. skgr.) ósæl ok eleg (vond). [28]) þannig J. S., og er þad víst rétt; í Skb. sést ekki nema e . . a. [29]) mín getg; þrótt, Skb. [30]) mín getg.; ladr, Skb.

Sókndeilir[31] hét sælu
sannvíss Paradísar
(gæf reynduz þau þjósi
þín heit) fridar veitir.

25. Hollostu gefr hæsta
hríngþrótt med sér drottinn
sadr, þeim er sínna idraz
synda, lausn ok yndi.
Ern skóp haudr og hlýrni
heims valdr, sem kyn heima
ørr er ok øllu dýrri
elsetrs konúngr betri.

26. Hverr mundi svo hendir[32]
hardgedr loga fjardar,
ela ranns, of[33] ynni,
ítr festir[34], þér, rítar:
at þreknenninn þinni
þrórr[35] (sættandi) mætti
ógrátandi (ýta!)
ormlands hjá kvøl standa?

27. Sæll, tóktu einn fyrir allar
óverdr guma ferdir,

---

[31]) þi. et., s. s. sóknudeili. [32]) Þetta er gétg. min; i Skb. sést, Hverr munnde h........ennder; hendir fjardar loga er mk. [33]) eda af Skb. [34]) min getg.; samkvæmt 50. er.; Skb. hefir hér: ítr . . . fer. [35]) þetta ord sést ekki i Skb.; madr gæti gizkad á þundr, þróttr, þorn, þollr: eg valdi þrórr, af því skáldid hefir þetta ord i mk. i 64. erindi.

sannstýrandi, sáran,
sólhaudrs, á þik dauda.
ok (lidfasta) leystir
(lífs unnir þú runnum)
hølda ferd or hardri
harms gnótt, fíra drottinn!
28. Hilmir, reis þú [36], ens hæsta
hrídtjalds, or grøf sídan,
flýtileygs, á frægjum,
fridsamr, degi þridja:
ok rádvísa [37], ræsir
regnhallar, vannt fegna,
ádr þá er ydvarr daudi,
aldyggr, fíra hrygdi [38].
29. Leid þú [39] í lopt upp drottinn
(litu gesla þat vitrar)
himins (fylgjandi), helgu
holdi skrýddr, af foldu.
Ádr trúir øld ok sídan
aldýran þik stýra,
skríngeypnandi, skepnu,
skýstalls, sælu allri.
30. Itr lofar engla sveitar
allr herr salar fjalla
víst med vegsemd hæstri

[36]) J Skb. sést ekki nema: Þ..; en reis Þú verdur ad framberast eins og reistú. [37]) getg., sbr. Lb. 8, 7; raud nisa, Skb. [38]) getg., sbr. Lb. 23, 8; erygde, Skb. [39]) framber leidtú, leittú, sjá skgr. 36.

vørd[40], ok menn á jørdu.
Ern skóp haudr og hlýrni
heims valdr, sem kyn beima,
ørr er ok øllu dýrri
elsetrs konúngr betri.

31. Enn mun ødru sinni
ødlíngr koma híngat
mána tjalds enn mildi,
medr[41] til dóms at kvedja[42].
Geisar eldr ok æsiz
elja fold; or moldu
ferd vaknar þá firda
flest vid ugg enn mesta.

32. Eingi mun alls á þíngi
ísheims vera þvísa
jóskreytandi ítrum
óttalauss fir[43] drottni;
ela vángs þvíat einglar
jøfurs skjálfa þá sjálfir
(ógn tekr máttug magnaz)
mæz vid ugg ok hrædzlu.

33. Hørd mun = at hógligt verda
hjálmstýranda ens dýra
sunnu syndgum mønnum
sektar ord at fordaz:

---

40) Getg.; vordr, Skb. 41) þ. e. menn, gømul mt. af madr. 42) þetta hefi eg gizkad á; Skb. hefir, dóms.. ....ía. 43) mín getg.; Skb. hefir til, bundid sem eg hygg vera midr rétt, og má vera sé rángt skrifad eptir eldri Skinnbók.

syskin mín[44], þvíat sýnazt
sár ok kross fyrir osso
drottins várs med dreyra
dyggs augliti hryggu.

34. Vér get ek fátt at færim
framm í orda glammi
at dádgeymis dómi
dýrdargjarns of varnir;
endr[45] ef eigi vendum[46]
aldar kyns sír syndir
(heldr reyniz þat høldum
hætt) vid gram til sættar.

35. Ord mega vøndut verda
víst aldregi Kristi
(gud er en gerfallt ædri
gæzku fylldr), sem skyldi:
Sterk lofar drótt ok dýrkar
dagstalls konúng snjallan,
himins er fylkir fremri
fródr hvivetna gódu.

36. Dóms ordi lykr dýrdar
dróttar valdr á aldir,
þar er greiniz lid ljóna,
loks, í tvenna flokka.
Spønd lætr øll til yndis
óttlaust af því móti

44) Sjá Lb. 8. 45) getg.; í Skb. sést ekki nema....dr.
46) getg.; Skb. rendum.

sunnu hvels, ok sælu,
sín børn konúngr fjørnis[47].
37. Sumar líta þá gæti
(geingr allt vid kjør dreingjum
heilags Krists) í hæstum
himinljóma guddómi.
Oss skyldi sú aldri
unads gnótt fira drottins
(þar er ørsløngvi øngum
ángrsamt) or hug gánga.
38. Þjód á hart, sú er hlýda
hildíngs bodum vildat
lofda kyns, medan lifdi,
lýtum kend[48], fir hendi.
Sú rasar aum í aumar
óvíslegar píslir,
ey grætir þar ýta
uggr, en vætki huggar.
39. Fnyk þola flærdar auknir
fleygendr þrimu leygjar,
þar liggr elds á øldum
íma, frost med bríma.
Mørg er[49] ønnur þar manna

47) Merking þessa vísuhelmings er hin sama sem í vísufjórdúngi þeim, er Próf. Gunnar Pálsson segir (Egils S. Skallagr., útg. Kh. 1809, bls. 273. skgr.) ad stadid hafi á reflinum í Hólakirkju: Spenr í sælu sína — sín born jofurs stjornu. 48) þannig J. S., í Skb. sést ei nema k … nnd. 49) getg. ; Skb., eru.

meiri ógn, ok fleira
ángr, en vor megi túnga,
óvegs, frá því segja.

40. Mjøk gengr máttr ok riki
mæts vardanda jardar
(lýd dugir helzt ad hrædaz
hann) of allt vit manna.
Sterk lofar drótt ok dýrkar
dagstalls konúng snjallan
himins er fylkir fremri
fródr hvívetna gódu.

41. Kosti hverr vid harra
(hætt er ella mjøk,) sættaz
byrjar láds (hvat bídum)
blakkvaldr þrimu tjalda[50].
Opt verdr Ægiss leiptra
ein stund vidum grundar
(traudr[51] erum øll at eyda
andar mein) at seinum.

42. Ungr skyldi þat øldu
eyktemjandi fremja,
gífrs er gømlum hæfir
gunntjalds boda at halda.
Traud verdr hønd (en hlýda
hrønvengiss má øngum

[50]) get.; tiallde, Skb.; en hér á saman byrjar blakkvaldr, mk., og harri þrimuláds tjalda, gud. [51]) getg.; í Skb. sést ei nema audr.

gauk, nema gerr verk bæti,
grundar mens) af [52] venju.

43. Ræfrs er-at løngu lífi
língbeitundum [53] heitid
(rum finna þat runnar
randæls) af gram landa;
Því er hríngstýri hverjum
hag sinn med trú fagri,
ýngra þoll ok ellra,
einsætt at vel hreinsi.

44. Leygs hefir dánar dægri
dádreyndr jøfurr leynda
svona [54] flugreinar sínu
sviptendr jøru skriptar;
Þvíat frónspennir finna
fagrtjalda vill aldri [55]
dælar seids [56] vid dauda
dúnmeida vanbúna.

45. Háborgar, fæz hvergi
hald, þat er bresti aldri,
hreggs nema horskum seggjum
heitfastr jøfurr veiti.
Sterk lofar drótt ok dýrkar
dagstalls konúng snjallan,

---

52) get.; á, Skb. 53) getg.; lundbeitundum, Skb. 54) getg.; svo ná, Skb. 55) Skb., alldre. 56) mín getg., sbr. skgr. 81; leids, Skb. Seidr, fiskur, dælar seidr, ormr, dælar seids dúnn, gull, þess meidr, maunk.

himins er fylkir fremri
fróðr hvívetna góðu.
(Slæmr)

46. Enn læt ek sagðan svinnum
sárklúngr-viðum þúngan
hátt, þann[57] er hvern dag ættim
hræðaz, framm í kvæði.
Þjóð mun sýna síðan
slæmr miskunnar dæmi
(ek skylda[58] þó aldri
ugglaufs), þau er mik hugga.

47. Lít ek optliga ýta
ólíkan mik síkjum
(aukumz sár í slíku
sótt) ástvinum drottins.
Þeir bunduz vel vondra
verka ógnar sterkir
brigða skjótt ok bættu
bógsvells metendr ella.

48. Frétt hafim dyggar dróttir,
Davíð konúngr síðan
snilli vandr eptir syndir
síðabót at tók skjóta.
Blíðr nam þeingill þýðaz
(þat er bann) konu annars,
en réð, svo at bar bráðum,
búandmann[59] af því svanna.

[57]) getg.; Skb. þat, bundið. [58]) getg.; í Skb. sést ekki nema .... llda. [59]) getg.; buand mannz, Skb.

49. Dreingr réd brátt at beida
budlúng eptir hag þúngan
høppum reifdr, sem hæfdi,
himinríkiss sér líkna.
Fékk, en fyrr, af søkkva
frídr landreki sídan
(hann réttiz svo) sunnu
sætrs vingjafar mætri.
50. Nítti[60] einn, vid ótta,
ítr postuli rítar
fróns musteris festir
fordum, þýjar orda.
Enn þegar idran sanna
aldrprýdir fékk lýda,
Pétr vann glæp med gráti
grandlauss þvegid vandla.
51. Því lét seggja sveitar
sinn postula finna
(raun lýsir þat) ræsir
ríkr óstyrktir slíkar:
at bæri mun meiri
málmrunnum varkunnir,
menn þótt misgert vinni[61],
margfrídr skørúngr sídan.
52. Hlaut María mætum
miskunn af gram sunnu,
víns þá er virda reyniss

[60]) min getg.; Zitte, Skb. [61]) Skb., vinne, kannske
vynni eda ynni.

vár þó sætr með tárum.
Snjallr vann snót frá øllum
senn misgerdum hennar
gumna vørdr, þeim er gerdi,
(gudi treystiz Bil) leysta.

53. Slík styrkja mik merki,
minn gud, undra [62] þinna,
þó at atferdin yrdi
vor herfileg stórum,
leiptra hróts at láta
ládvaldr muni aldri [63]
gladr, ef ek glæpa idrumz,
glóda mik fir róda.

54. Sálo [64] veitta ek, sættir,
(sárr er minn hugr) þinni [65]
bana [66] hættlegar benjar,
bragna kyns, fir syndir.
Nú beidum þik [67], þjódar
þrekfædandi, græda
andar sár, þau er voru,
ósvífr, glata lífi.

55. Brigdr er heimr, sá er hugdag
(hann døkkvir síd manna;
opt verdr [68] lýdr á ládi

---

[62]) Skb., vn . . .  [63]) Skb., alld;.  [64]) get.; Skb., sals.  [65]) getg.; Skb., sáR er minn . . re . . . .  [66]) getg.; i Skb. sést ei nema . . ana.  [67]) þessu ordi hefi eg bætt vid, þád vantar í Skb., og eingi eida fyrir þvi.  [68]) i Skb. sést ei nema, . . . . . erdr.

lastaudígr) vinfastan.
Eykr, sá er eigi rækir
ord þín, fridar tínir,
hjørfa þollr, en hylli
hans leitar, sér vansa.
56. Tregr em ek ljót at láta
lasta verk til fasta
(mér bagar [69] opt fir augum
eligs móds) fir róda.
Þess á ek mér at meiri,
margríkr jøfurr, líknar,
fleygs [70], ok, foldar ægiss,
fridar sjálfan þik bidja.
57. Heldr dæmdu mik, hølda
happvinnandi, þinni
meirr af miskunn dýrri,
mætoz [71], en réttlæti.
Líttu ok vird, sem ek vætti,
valdr blásinna tjalda
hreggs, at hjálp of þiggi,
hár, ósthyrktir várar.
58. Hvar mega oss [72], enn ørvi [73]
ýta kyns, fir syndir
sárar [74] sektir varar,

---

[69]) Dvist; i Skb. sést ei nema bag...., eda hag..
[70]) i Skb. sést ei nema, ... leygs; ægir, hjálmr, foldar ægir, himinn, fleygr foldar ægir, hversandi himinn, hans jøfurr, gud. [71]) þ. e. mætastur. [72]) getg., sbr. skgr 13; Skb., oss. [73]) Skb., ørse. [74]) getg.; Skb., sár er.

sættir [75], skjóls of vætta?
nema lastauknum líkna,
logskríns, vilir þínum
sjálfr, þeim er syndir skelfa,
sæll gnæsandi, þræli.
59. Hlut megut hvern til gotna,
happkúnnig, miskunnar,
ramlegs buss af ræsi
røduls, María, ødlaz.
Vestu [76] ávallt at trausti,
vegstýriss, mér dýru,
mild, at ek missa aldri,
móðir guðs, yðvars góða.
60. Vætti ek oss með ótta,
alskírt himins birti
høfuðmusteri ens hæsta
hildings, af þér mildi;
haudrs, þvíat hugga fríðir
hug minn síðir þínir,
grams kastali enn glæsti
gluggs, en várt líf hryggvir.
61. Verðr-at, blíðr, sir borði
brjótr, høfðingi snóta,
(mjøk treystumz því) Mistar
myrklengs, sá er þik dýrkar;
þvíat vegskjótum veita,
veðrs landreka strandar,

[75]) getg.; Skb., sáttar [76]) getg., svo hendingar haldist i vísuorði; vertu, Skb.

viltu, svinn, ok mátt mønnum,
móðir, allt eð góða.

62. Hvern bið ek hald og árnan
helgan mann [77] hins sanna
(krúss) við tírar ræsi
(traustiss leita ek) mér veita:
svo at óbættan ættim
eingi kost, þá er [78] dreingja [79]
jøfurr vill andar kresja
ástnenninn hal þenna.

63. Ern, látið þau, ýta,
atferðar lok verða,
miskunnandi, minnar,
margríkr, at þér líki:
svo at frá ydr í ýtru [80]
(oss kjósum þat) ljósi,
veglyndr veðra grundar
valdr, skiljumst ek aldri.

64. Létum hróðr, þann heitir
Harmsól, fetilkjóla [81]
sir hugprúða hríðar
herðendr borinn verða.
Mér biði hverr, er heyrir,

[77]) Þessu orði hefi eg bætt við eptir ágezkun, það sést ekki mót fyrir neinum støfum í Skb. á þessum stað. [78]) getg.; sést ekki í Skb. [79]) getg.; dreingi, Skb. [80]) þannig hér Skb., en venjulega skrifast þetta orð með í. [81]) getg.; Skb. fetil kjósa, en það spillir hendingum; fetilkjoll, kjølr, leggr fetils, sverð, þess hríð, bardagi, hans herðendr, menn.

heimspenni, brag þenna,
eskiþrórr ok eirar
unnrødla miskunnar
65. Án láttu øngvan þína,
ángrleskandi, mesta
mann (deilir þat máli)
miskunn, jøfurr sunnu.
Vørdr, lada skatna skirda [82],
skýtjallz [83], saman alla,
itr, þar er aldri þrjóti
unads gnótt ok frid, Drottinn!

[82]) Skýrda, Stb. [83]) skýtjalldz, Stb.

# Líknarbraut.

1. Einn, lúktu upp, sem ek bæni,
ódar rann, ok gef sanna
mér, þú er [1] alls átt ærit,
ordgnótt, himins drottinn!
Þinn vil ek kross, sem kunnum,
(Kristr styrki mik) dýrka
(ørr, sá er ýta firrir
aldri naud ok dauda).

2. Víst má ek hræddr, ens [2] hæsta
heidr algøfugs [3], beida,
mér at munnshøfn dýra
mærdteitr jøfurr veiti;
ár [4] þvíat ek má stórum
úngr hógsettrar túngu
frá afgerdum [5] orda
offjaldan vel halda

3. Hneigdu, er veitir vægdir

---

1) Ert, Skb. 2) i Skb: sést ei nema; :..s. s. 3) kannske lesa ætti heidrjalls gøfugs. 4) ár orda, túnga. 5) afgerdir hógsettrar túngu, gálepsis tal, sífskapar mál.

vígrunni, miskunnar,
hreina hugdu bænum
heyrn þína, guð, mínum!
allr týnumz ek ella,
ítr, sem þú mátt líta,
guð, nema gæzku fadrar
gipt þín yfir mér skíni.
4. Þrifgædir, láttu, þjódar,
þíns anda mér skína
ástar ljós, sem ek æski,
albjart í sal hjarta:
þat er misverka myrkrum
munar hrindi, svo blindi,
míns, or mælsku [6] túni
móðs vandlega hrjódi.
5. Dreifdu, láds ok lofda
lífstýrir, mér dýru,
leyfdar kendr [7], í lyndis
láð himnesku sádi:
ár svo at ávøxt færag,
alls kannandi, sannan,
elsku kudr, af ydru
óþornudu korni:
6. Þann [8], er af mínum munni
margr til andar bjargar
sér megi randa rýrir

6) Getg. J. S., án efa rétt; Skb. hefir: me..u.
7) getg. J. S.; í Skb. sést ekki nema, ..ndr. 8) svarar til ávoxt í 5. vo.

rødulſ framkvæmd ødlaz.
Svik [9] látattu ſveitar [10],
ſídſkjótr, af því hljóta
gumna kind, af grandi,
gud minn, laga þinna.

7. Haudrs, veit helgar rædur,
hildíngr, ok kenníngar,
mána hvols, or mínu,
mannvandr, hugar ranni.
Øll eru ord þín gulli,
alhreinn, ok gimſteinum,
víſi ſæll, gjørvøllum [11],
vegs, bjartari ok fegri.

8. Beidandi kved ek bædi
brædr ok ſyſtr at kvædi;
øll veiti þér ítran
ydvarn tænat mér bæna:
vitzku ſtærdr [12] at virdiz
vedrſkríns jøfurr mínum
(nýtr er, nád [13] ſem heitir)
nálægr vera málum.

9. Hródr ſtofna ek heidar [14]
hjálmſpennanda þenna,

---

[9]) Getg.; í Skb. ſéſt ei nema ſ... [10]) getg.; ſveitir, Skb., bundid; eg tek ſaman: minn ſídſkjótr gud, látattu kind gumna ſveitar hljóta ſvik af því, af grandi laga þinna. [11]) getg.; or vøllum, Skb. [12]) getg.; ſtirdr, Skb. [13]) naud, Skb. [14]) mín getg.; h... dar, Skb.

blídr ok hryggr bædi[15],
bjartr ok gladr í hjarta.
Ok[16] mun orum[17] þikkja
eggmóts, of hvartveggja,
vísiljóss, ef vissi,
vera søk til þess[18] nøkkur.

10. Því ber ek ángr, at øngu
árs launa ek sárar
skírs, sem skylduкt veri,
skilfíngi píníngar.
Þó gledr en, sem adra,
oss, sú er hlauz af krossi
lyd ok lofdúngs dauda,
líkn dýr, himinríkiss.

11. Kosti alls of[19] ástar
(einsætt er þat) hreinan
(magn stýri því) meira
madr[20] hverr svika þverri;
þvíat margfalda mildi,
minn lausnari, þína
hverja stund at høndum
hlífrunnum lætr svífa.

12. Sá er, baztr, frá mey mæztri,
mildíngr, beraz vildi,

[15]) Eg hefi snúid þessu vo. sona vid; i Skb. er: bedi hryggr ok blídr. [16]) getg.; sést ekki í Skb. [17]) þ. e. árum, þi. mt. af árr: eggmóts vísiljóss orr, mk. [18] getg.; i Skb. sést ei nema, þ... [19]) getg.; af, Skb; eg tek saman, of hreinan svika þverri. [20]) getg.; mer, Skb., bundid.

heida tjálds, ok holdi
hjálmprýddan sik skrýddi.
En naud á sik sídan [21]
sjálfrádi tók dáda
víst fyrir vára løstu
vísi sjálfr med píslum.

(Stefjamál).

13. Vilda ek vitra hølda
vegs gætir [22], meinlætum,
hátt, þeim er hørdum mætti,
hvargódum, stef bjóda:
Krists [23] vinnr krapt ens hæsta
krossmark vidum hnossa
alls best; lofar æztan
øll dýrd konúng fyrda.

14. Veittu, menn sem máttu,
marga lund á grundu
grimmúdgastir gumnar
gudi sælum harmkvæli.
Lét fyrir ljóna sveitum
limu sína gud pína,
framarr en flestir gumnar
fjøldygglr megi hyggja.

15. Poldi hálshøgg hølda

---

[21]) Getg.; J. S.; i Skb. sést ei nema, s.... [22]) mín getg.; Skb., vegsgetiss, en eg held, ad essin séu framkomin af bandinu er i einhvarri eldri Skb. [23]) getg.; Skb., Kristr.

hildíngr med spýtíngum;
vørdr hlaut fróns af fyrdum
flest skaup ok kinnesta;
hann bar hneysl af mønnum
hverja lund ok stundir;
píndr var hann berr ok bundinn
bardr vid farar hardar.

16. Nísti ferd í frosti
fárlundut vid tré sáran
(var = a [24] hann verdugr písla)
várn grædara járnum.
Glymr vard hár af hømrum
heyrdr, þá er nagla keyrdu
hjálms gnývidir hilmi
hófs í rist ok lófa.

17. Arstillir vann alla
oss, þá er hékk á krossi
(eitt er um þat) drottinn,
(almæli) fullsæla.
Krists vinnr krapt ens hæsta
krosmark vidum hnossa
alls best; lofar æztan
øll dýrd konúng fyrda.

18. Guds var mær ok módir
mána [25] haudrs vid dauda
hýr med hjarta sáru
hildíngs, ok píníngar.

---

[24]) Þannig Skb.; kannske réttara vas = a, svo kvedandi haldist. [25]) rétt gétg. J. S.; í Skb. sést ei nema, m . . . . a.

Víst var víf ed hæsta
vátar kidr af gráti,
son þá er sárr af benjum
sidnenninn dó hennar.
19. Hvat megi heldr of græta
hvern mann, er þat kannar,
rødla býss en ræsiss
ríks píníngar slíkar?
er dýrr á sik sáran
siklíngr eptir kvøl mikla
hreinn, til hjálpar mønnum,
haudrfjørniss tók dauda.
20. En undir hægri hendi
hyggju blídr á sídu
hlaut af hvøssu spjóti
høfugt sár konúngr jøfra.
Arveitiss rann ýta
eirsams [26] or ben þeirri
(hugum skyldu þad høldar
heyra) vatn ok dreyri.
21. Lýsti miskunn mesta
mildr, þá er saklauss vildi
einn fyrir øllum mønnum,
eyhjálms konúngr, deyja.
Krists vinnr krapt ens hæsta
krossmark vidum hnossa
alls best; losar æztan
øll dýrd konúng fyrda.

[26]) Mun gelg.; eir sanz, Sk.

22. Kvalidr sté øllum ædri [27]
ítr gramr til helvítiss
dægra láds eptir dauda,
djøfla rann at kanna.
Leysti sinn at sønnu
sólhallar [28] gramr allan
lýd, fyrir lífstré þjódar,
líknar styrkr frá myrkrum.

23. Lik fór kennir keykja [29]
krapts med ønd til graptar [30]
sitt, ok sæll reis drottinn
sólar haudrs af dauda.
Urdu allir fyrdar
ángrhegnanda fegnir,
ádr þá er elsku fædiss
aldyggs bani [31] hrygdi

24. Lands sté gramr af grundu
gudblídr døgum sídarr
(eyks ok af øllu slíku [32]
vor hjálp) tugum fjórum.
Fróns skal síklíng [33], sínu,
sveit, hin er Krists vill leita,
tjalds, í tignar veldi,
trúa mann ok gud sannan.

---

[27]) Getg.; i Skb. sést ekki nema, ste oll ...... [28]) getg.; s..hallar, Skb. [29]) þ. e. lifga, af kykr, kvikr. [30]) þ. e. í grøfinni. [31]) min getg.; bana, Skb. [32]) min getg.; i Skb. sést ek nema ...kn. [33]) getg.; síklíngs, Skb.

25. Geypnir skjølbúngr skepnu
skríns skyrkliga sína
(ern er hilmir hlýrna)
heidtjallz saman alla.
Krists vinnr krapt ens hæsta
krossmark vidum hnossa
alls best; lofar æztan
øll dýrd konúng fyrda.

26. Enn mun kross dýrd kynnaz
(kemr ótti þá) drottins
fyrir hnigstøkum hjørva
hljóms, at effta dómi.
Meidr skal hverr or haudri
hríngmóts til alþíngiss,
fremdar ráds á fædiss
fund, hvatliga skunda.

27. Kross mun á þíngi þessu
þjódum sýndr, med blódi
(uggs fyllaz þá allir
aumir menn) ok saumi.
Líta seggja sveitir
svipur ok spjót á móti
sér, ok seá, med dreyra
sjálfs Krists, vidir mistar.

28. Heim ladar hvern frá dómi
himins fyrda til dýrdar
(gipt prýtr = at þá) gætir

glyggranns med sér dyggra [34].
En veglausum vísar
vándum lýd til fjanda
birtiranns, at brenna,
byrjar valdr, of aldir.

29. Hljóta ey med ítrum
alfegnastir þegnar
sólar vørd í sælu
slódar allt ed góda.
Krists vinnr krapt ens hæsta
krosmark vidum hnossa
alls best; lofar æztan
øll dýrd konúng fyrda.

(Nidrlag)

30. Krýp ek til kross, en glæpa
knosut bønd af því losna,
óttafullr, med øllu,
innanbrjósts, frá þjósti.
Dýrt kved ek hræddu hjarta
huggóds drifid blódi
grams píslartré geisla
grundar, skøpum bundinn.

31. Heill vertu, kross, er kallaz,
Krists mark, himins vistar,
lýds af lækniss dauda,
lykill mannkyni, sýknu:

---

[34]) Skb. hefir dyggva, en eg tek saman, hvern dyggra fyrda, í e. mt.

ǫrr þvíat upplauk[35] harri
elſkríns, fyrir þik, ſínum,
ádr þá er læſt var lýdum,
lífs høll vinum ǫllum.

32. Heims, bartu hvøſsum[36] ſaumi,
hjálpſterkr, fridar merki!
lýdr at lauſn of nædi,
limu Kríſts vid þik níſta.
Máttu af dreyra drottins
dags reitar því heita
blíds, ok bitrum dauda,
blómi helgra dóma.

33. Skeid ertu fróns und, firdum,
farſæl konúngs þrælum
ſljót, ok frami ítrum
fóſtrlands á vit ſtrandar.
Þú ſnýr (bøls hjá barmi
bodar kaſta þér laſta),
lýds und líknar audi,
lífs hafnar til, ſtafni.

34. Stigi nefniz þú ſtafna
ſtál frídundum ſmídi,
trauſtr af tvennrar áſtar
(tel ek minni þers) kinnum.
Frammkemr hverr á himna
hræſkóds, ok fær góda
ſtétt, þá er ſtig þín hittir,

[35]) min getg.; upplaukt, Skb., en 2. pers. á hér ekki vid.
[36]) getg.; hue..um eda huo..um, Skb.

styrjár lundr, af grundu.

35. Bezt ertu brú til ástar,
brýn, þó at torgeng sýniz
gumna kind af grundu,
guds þrælum fullsælum.
Færdir [37] gánga þik fyrdar
símir í lid til himna;
hallaz af þér, er illrar
övenju til spennazth [38].

36. Heims léztu verd ok virda
vegit [39], gimsteinum fegra,
himna ljóss í hvøssum
háleitr fridar skálum.
Vag [40] er=at víst né frægri
(vett sýnir þú rétta
oss) til ýta gæfu
(alsetrs vera) betri [41].

37. Sæfdu lamb guds lofdar;
(ljóst hafa þess í brjóstum)
ok ertu enn í slíku
altari (løg sára):
þvíat lautvidir létu
lastbundnir helgasta
linns, þá er lausn gaf mønnum,

---

37) getg.; i Skb. fer..ir. 38) þ. e. spennasþ, kannské réttara spenjasþ. 39) getg.; veg er (bund.), Skb. 40) getg.; sést ekki í Skb. 41) þannig J. S.; betir, Skb. Eg tek saman: er=at víst betri né frægri vag til ýta gæfu: þú sýnir oss rétta vett (þ. e. þyngd) vera alsetrs (heimsins).

lífs fórn á þik borna.

38. Snjallr, ertu ordinn øllum
ofrnídingum sídan
djøflum leidr, eptir dauda,
dýrr kross, himinslýriss.
Leggr andskota undan
ætt, fyrir gøfgum mætti,
opt, ok ydrum krapti,
ótta gjørn á flótta.

39. Crúx, lemid ángr, ok ærlit
allt gott lidi drottins;
sýndr ertu seggja kindum
sigrtrúr í gný vigra.
Opt ertu els, í høptum,
itr lausn vidum rítar;
guma fordar þú gerla
grandi holds ok andar.

40. Veittu mér líkn, er læknar
ljóna kind frá blindi
hyggju túns, ok hreinsar,
heims prýdi, kyn lýda!
Ertu fyrir hvers manns hjarta
hreins vid øllum meinum
hæstr ok hardri freistni
hlífiskjøldr í lífi.

41. Eingi fær [42] tøld med túngu
tákn þín, er nú skína,
hjálpar hneigistólpi

[42]) Stb. ferr.

heims alls, of [43] kyn heima.
Ært ferr vald [44] til vartar
(vegr þinn er berr) fegri
(hreinn), en hugdu vinnim
hverja dýrd or skýrda.

42. Sett hefir sína dróttar
sigrstod konúngr rodna
blikmeidundum blódi
bauga láds fyrir augu.
Sjá [45] má hverr í heimi
hnossa brjótr, á krossi
byggr hve sinn fadm seggjum
sólstéttar gramr réttir.

43. Þá er, sem þeingill skýja
þreksnjallr kvedi alla
oss med ordum þessum,
ágætr fyrir meinlæti:
„mín hefi ek sár at sýna
„seggjum gód med blódi;
„madr seái hverr á haudri
„híngat til pínínga.

44. „Er megut undir stórar
„ydvars grædiss sjá blæda;
„þær eru sýnt, þótt sárar,
„saklausum mér vaktar.
„Mín þvíat mildi raunar
„mest, ok ydrir lestir,

[43]) getg.; ok, Skb. [44]) getg.; vallt, Skb. [45]) getg.; J. S.; i Skb. sést ei nema, . . . . a.

„veldr því, at verda skyldi,
„víst, lýds fyrir píslum.
45. „Mín, snústu, þjód, ok þjóna
„(þat er rádulikt) dádum,
„glæpum vøn, frá greypu
„grandi mér til handa!
„Því býd ek fadm, at fedmig
„fúss ok gladr med sadri
„ást hvern, er idraz lasta
„unninna, miskunnar".
46. Minnumz á, hvat unni
ødlíngr í píníngu
árs, þá er ord slík heyrum,
oss, deyjandi á krossi!
Leidum hørd á haudri
hjarta vars, med tárum,
syskin mín, fyrir sjónir
sidgætiss meinlæti.
47. Rédum krapt í kvædi
kross þíns fyrir þjód inna,
árs, þó at, eslir, værag
allitt til þers fallinn.
Sizt em ek samr[46], of baztan,
(sýnt aungrumz því løngum)
fyrir lundfasta løstu,
líknfædir, þik ræda.
48. Bæn heyrdu, bragníngr, mína
(bila mun=at þú vilja,

46) geig.; Stb., s..nr.

veita vægd at móti)
vegskríns (losi þínu).
Sjálfr eggjar þú seggja
sveit, á þik at heita
(þat vidr), gumna gætir
(gjørbænan mik), hverja.
49. Vilda ek af þér, aldar
ángrstrídandi, sídar [47]
enn fyrir ódgerd mína
eiga gjøld med leigum.
Adr hefi ek ønnur gædi,
eirsamr, hlotid meiri
þín, en ek þér fá launat
(þat óttumz ek) drottinn!
50. Æsti ek øllu trausti,
ítr, þik, er gjørst kant líta
med réttvísi, ræsir
regnsals, hvat er mér gegnir.
Láttu mik laun fyrir þetta
lof þitt, konúngr, hitta
víst, þau er vardar mestu,
vedra tjalds, of aldir.
51. Framm bar ek foldar humra
(fæ ek heitiss svo leitad)
leidar (ljósu kvædi)
Líknarbraut fyrir gauta.
Sæll, láttu oss ok allri,

---

[47]) getg.; sídr, Sk.

ángrſkerdandi, verda
þjód, ſem þurft vor beidir,
þenna hródr at gódu.
52. Mæztr, lát merki Crúcis,
minn lauſnari, ſkína,
ørr, í atferd vorri
alla ſtund á grundu:
ſvo at eilífrar[48], jøfra,
óttlauſt med þér, drottinn!
eigniſt æztan føgnud
unads viſtar lid kriſtit.

---

[48]) getg.; eilífra, Sth.

# (Heilags anda vísur.
## Brot)

......lífgadra anda.

---

1. Blídr, lífgar þrif þjóðar
þinn bláſtr, frømudr áſtar,
ſyni kend(r), (eykr yndi)
endrbornar (her fórnar).
Frá lida (fæſt en) leſtir
(fridr) þeim er ſynda idraz:
hljóta menn af mætum
miſkunn lífsins brunni.
2. Bléſtu, hugfyldra hølda
heilagra gud, fagra,
vitr, þeim, er vísdóm betrir
vandan, ſpektar anda.
Sú hefir einkagjøf grænkat
gedfjøll lidi øllu
(er = at ſeggja trú) tryggva
(tóm) ſidferdar blómi.
2. Aflnægr ſedr øflgu
jód huggari þjóðar
(áttu þann, er aldri ſættiz,

aud) skilníngar braudi:
því, er oss med hug hvøssum
hrein brjóst, ok trú, fóstrar,
glød lætr guddóms edli
guma kyn fødur skynja.
4. Ok vøldum her hølda
hugar skóg frømudr nógu
regns hátunnu rennir
ranns, aldini faldit:
því, er illífis æfa
andvígr hiti grandar
(fremd er í gipt), né grimdar
greypr elreki steypir.
5. En móð í styr strídum,
sterkr grædari, skædu
eflit ýgra bjøsla,
aldar, mest firi valdi.
Nú prýdir ønd í andar
orrosto mannkostum,
né drengjum þar þrøngva
þrír óvinir [1] skírum.
6. Réttvísum kantu, ræsir
regnbýss, hugum lýsa
veg, ok vizku skynja [2],
vakr, hermanna spakra.
Gladir hrinda því grandi

[1]) þ. e. djøfullinn, heimurinn og holdid, sem minnzt var á í 4, og 5. erindi. [2]) kannske: segja, so ad saman eigi, segja réttv. hugum veg og lýsa vizku (Þó).

guðs menn, þeir er vel renna,
(fremz helgat lið) lymsku,
lífs braut, djøfuls (skrauti).
7. Hvert mein þvait, hirtir
hugar sjúks liði mjúku,
gegn, sá er góðu magnar,
glødum brunni miskunnar.
Siðlátum eykr sætan
sá bekkr, þeim er af drekka,
(línar brysti þrá) þorsta
(þekkr elskugi) rekkum.
8. Valdr gefr mærr mildi
meinlausum her beinan
guðs, þeim er grimmu niðra
grandi, hræzlu anda.
Sú er prýðigjøf góðum
grundvøllr støðugr undir
(ná er gipt), en krefr, krøptum,
Krist af hjarta tvistu.
9. Rokkr drottinn fremr rekka
ríkr ástgjøfum slíkum
(þeim er sigr ok sómi)
sólar fróns (at þjóna).
Sýngr óskalof lengi
landherr spøkum anda .....
10. Kom nú, hreinskapaðr himna,
hlutvandr føður andi,
yðvorra frem errinn
alsælan hug þræla!

Gumna brjóst fremr grimmum
guds kraptr (þeim er þú skaptir)
í himneskra hásla
(hjálp unnin miskunnar).

11. Sanndyggra máttu seggja
snjallr huggari kallaz,
hardfengt traust ens hæsta,
heidgjøf konúngs jøfra.
Eldr ertu elsku mildrar,
eilífr brunnr ok heilagr,
er hinn andar sára
einsmurníng vit hreinsar.

12. Þinn er, salkonúngs sólar,
sjøskiptr frami giptu
(vandaz) hægri handar
hreinn fíngr (bragar greinir)!
Þú prýdir rausnar rædur,
ríkr andi, þér líkast
fyritignari, segnar,
fødur kverkr, meginverkum.

13. Tendra þú ljós í leyndum
lundgódr, vitum, þjódar,
bøls hirtir! vek bjørtum
bjørt elskuga hjørtu.
Hagr, efl, hallar fegrir
(hverr er leystr, er þér treystir),
varn líkama veykan,
vagns, eilífu gagni!

14. Ut rektu óvin sleitinn,

ángrþverrir, veg lángan,
giptu framr, en gumnum
gef hraustum veg traustan!
Ver þú, at vér megim forðaz,
viss leiðtogi, píslir
lengr ok løst á þrøngum
lífs veg, síða fegrir!

15. Veittu, vér at réttan,
vits brunnr, megim kunna
føður í fylking saðri,
friðskýrðr, ok son, dýrðar.
Ok kæran þik þeirra,
þrisa eggjandi, beggja
allar stundir með anda,
allstyrkr, trú dýrkum.

16. Vegr se feðr ok føgrum
fljótt óskmegi drottins!
losi huggara hygginn
hugprúðra kyn virða!
En salkonúngs sólar
sonr eingetinn hreinnar
sendi oss með anda
ørt vingjafir bjørtum.

17. Framr hirðir, er himna
heldr eilífu veldi,
fróns, veiti sá sínum
sauðum líf eptir dauða.
Greindr skínn orð ok andi ......

# Leiðarvísan.

1. Þinn óð (sem) ek inni
allskjótt, salar fjalla
(harðla brátt til hróðrar)
harri (munn ok varrar).
Mér gési døglingr dýra
dœmistóls ok sólar,
enn svo at ek mega, sanna
orðgnótt, lofa drottinn.
2. Fyrr kveð ek frægjan harra
fagrgims, þann er ræðr himni,
háss, at hróðri þessum,
hreggranns, en kyn seggja.
Æsti ek aflamestan
orðgnóttar mér drottinn;
hrærð skulu mín til mærðar
málgøgn, en lið þagni.
3. Føður bið ek ok son síðan
slétt óðar lag rétta;
minn styrki vel verka
vandan heilagr andi.
Vor munu aldar stýri
óþægileg frægjum

orð, nema mér til mærðar
máls gnótt fái drottinn.

4. Víst em ek fúss at freista
(fæ ek ljósum brag hrósat
láðs fyrir lypkimeiðum
linns) orðspeki minni.
Því hefir hreggþjálma hilmir
hreinlyndr géfit eina [1]
oss til óðar, þessa,
orðgnótt, at ek skal njóta.

5. Hljóð gefi hirðimeiðar
hrælinns at brag svinnir
(gegn vil ek þjóð at þagni,
þá stund er ek kveð) sunda.
Vil ek (méðan varrar telja,
vegskrýðendr [2] mér hlýði)
frá báðmáttugs drottins
degi nøkkur røk segja.

6. Tek ek til orðs, þar er urðu
allfregnar jarteignir
(tákn eru sýnd í slíku
sønn) Jórsalamønnum.
Sendi salvørðr grundar
snillisimr af himni,
borgar lýð til bjargar,
bréf, gullstøfum fullat.

---

[1]) Því eina, þvi að eins. [2]) kannske, viggskrýð=
endr.

7. Vard bréf, þad er gud gerdi
gedsnjallr, ok lét falla
(von er á gipt) á græna
grund, sunnudag fundit.
Becks [3] rédu þá blídir
byrskíds vidir sídan
(verdr sá, er venst á dýrdir
vitr) gullstøfum ritna.
8. Sagdi bréf, hvad brygdi
bitr fár guma ári,
blakks skreytendum brautar
bord frá drottins ordum.
Hljóta víst, kvad veitir
vegfródr hluta gódra,
menn þeir, er minn dag vinna,
mest ángr af því, flestir.
9. Hætt kvedr heilagr drottinn
hyrskerdendum verda
arms, þeim er eigi þyrma
alfríds sonar tídum.
Því eru flugraddar fæddir
fleins med ymsum meinum,
bædi børn ok módir
bág lundar fer stundum.
10. Mun ek, kvad vørdr, í, virda,
vallræfrs, lidu alla
(stríd þjá drótt) til dauda
(drjúghvast) ættum kasta:

[3]) kannske, bók.

ef vegrunnar vinna
vardelgs daga helga
elds, eda eigi gjalda,
allþétt, tíund rétta.

11. Fárskerdir býdr fyrdum
fridar kunnan dag sunnu,
ýtum hollr, um allan
aldr dýrlega at halda.
Gefa kvezt mætr á móti
meinhrjódandi þjódum
ár med øllum tíri
einart, ok frid hreinan.

12. Án [4] mega øngir (dýnu
otrs), þeir er skírn hafa hlotna,
(gott er meidum þrif þýdaz)
þat kaup hafa [5] skatnar.
Ord munu eigi verda
orbrend [6], þau er gud kendi;
mjøk er sárvita [7] sækir
sanns duldr, ef hyggr annat.

(Stefjamál).

13. Stef skal hátt (né hætta
hygg ek enn tølu dyggva),
skjótt ef ek finna mætti
fríd ord, gudi smídat.
Lúta einglar ítrum

---

[4]) Hér á saman: án kaup, kauplaust. [5]) leibr.; hafe, Sk. [6]) þ. e. ónýtt. [7]) leibrétt; sá er vita, Sk.

óttlaust ok lið drottni:
einn er síklíngr sunnu
setrs hvívetna betri.

14. Yfir þeingill skóp eingla
einn sunnudag hreina;
sønn hefir síklíngr unnit
slík verk himinríkiss.
Ok heimstýriss harri
heppinn þá er skóp skepnu,
þann setti dag drottinn
dýrdar mildr til hvíldar.

15. Kristr setti frið fastan
fimr medal láðs ok himna
(naudr er þegnum þýðaz
þann veg), guðs ok manna.
Ok dáðskreyttan drottinn
dags hallar frið lagði
(þat var sunnudag) sinnar
snjallr medal sképnu allrar.

16. Reiddi røngum studdan
ramn [8] þjóðtradar glamma
flóð, áðr foldu næði
fjølkænn Nói grænni.
En þá er ørk á landi
ólesta vel festi,
þjóð af þramval prúðum
(þat var drottinsdag) sóttizt.

---

[8]) leiðrétt; rann, Skb. (réttara ran).

17. Háſs rædr heimi þeſsum
hreggranns jøfurr (ſeggjum
gud lætur gott líf ødlaz)
gæzku ſiurr, ſem himni.
Lúta einglar ítrum
óttlauſt ok lid drottni:
einn er ſiklingr ſunnu
ſetrs hvívetna betri.

18. Fylgdi lýdr af ládi
lagavíſum Móýſi;
ſundr ſprakk vogr ſir vendi,
var þat ſunnudag unnit.
Puſti hafs med hreyſti
heidit fólk á leidir;
brátt vann løgr enn ljóti
líftjón Pharaóni.

19. Túnglbryggju gaf tiggi
tíu ord laga fordum
(fridr af føſtu mædiz)
fjølhreſs guds vin Móýſes;
ok þrekprúdum þjódar
þann veg yfirmanni
vor drottinn lét veittan
vídkunnan dag ſunnu.

20. Sinn ſkreytti dag drottinn
dádſterkr frama verkum,
rekkum þá er rann til drykkjar
reint vatn fram or ſteini.
Ok rádmeginn lét rigna

rísnu simr af himni
mat þeim, er Manna heitir,
margri þjóð til bjargar.
21. Einn er sælstr um sinni
(samir lýðum trú þýðaz)
heims stýrandinn hárri
hallar skepnu allri.
Lúta einglar, ítrum
óttlaust ok lið drottni:
einn er siklíngr sunnu
setrs hvívetna betri.
22. Eingill kom, við únga,
allheppinn, mey spjalla,
burð ok budlúngs dýrðar[9]
bauð hann frømum svanna.
Brims tók bjørk en fremsta
brands[10] við helgum anda;
sú hefir ek frétt að dag drottins
dýrð framkomin yrði.
23. Dagmærar[11] lét dýrrar
drottins tíð fyrir óttu
mæztr frá meyju beztri
mildíngr beraz híngað.
Því er rétt at dag drottins
dáðsnjalls høfuð kallim
(gerðiz fagnaðr fyrðum
fríðr) annara tíða.

9) dyrdir, Stb. 10) bands, Stb. 11 Dag merik, Stb.

24. Lét Jóhannem ítran,
einn dyrdarmann hreinan,
ár í Jórdan stýrir
alls tírar sik skíra.
Dádstéttar kom drottni
dags, ok krísmu lagdi
líknar fúss í lesni [12],
lands, enn helgi andi.

25. En vilda ek annat
alfríduſtum smída
hátt í hródri sléttum
himins gotna stef drottni:
Gramr skóp haudr ok himna
hreggranns, sem kyn seggja:
einn er salkonúngr sólar
snjallr hjálpari allra.

26. Sýndi sólar landa
síklíngr med trú mikla
horskum lýd á haudri
hreinn skjótar jarteinir.
Frítt gerdi dag drottins [13]
dádsimr jøfurr himna
vín or vatni einu;
vard þjód fegin hardla.

27. Sinn veitti dag drottinn
dýr tákn, himins stýrir
lýd þá er litlu braudi
lofkvaddan gud saddi.

[12]) þ. e. høfud; í Skb. lesne. [13]) leidr.; í Skb. drottinn.

Rǿskr vann fljótt af fiskum
fridkennandi tvennum
fjølda lýds ok fridum
fimm hleifum vel reifa.
28. Hátt gengr dýrd sú, er drottinn
dádgladdan her saddi
(opt er kudr at krapti
Kristr) á litlum vistum.
Tólf segja, elda [14] elfar
ullr, vandlaupar fullir
(matr vannst mønnum snotrum)
mikill fengr [15] at afgengi.
29. Otraulla má øllu
aldýrr fadir stýra;
sterkr er eingr svo, at orki
aptrad drottins krapti.
Gramr skóp haudr ok himna
hreggranns, sem kyn seggja:
einn er salkonúngr sólar
snjallr hjálpari allra.
30. Dag reid sinn med sigri
siklingr blídr til vídrar
sólbryggju (hratt seggja
sorg) Jórsalaborgar.
Ok [16] fyrir ødling ríkjan
óhrædinn litklædi

---

[14]) leidrétt; edda, Skb. [15]) þannig Skb. í tveimur ordum, en réttast mun ad skrifa mikilsengr, og heimfæra þad til ullr í 6. vísuordi. [16]) getg.; en, Skb.

þar vann lýdr á ládi
lopthjálms borid pálma.
31. Dag reis[17] sinn med sigri
snjallastr fadir allra
(sonr huggadi seggi
sólar haudrs) af dauda.
Ádr batt slærdar fródan
fjanda heilagr andi
fast, ok fyrda leysti
fremdar styrkr or myrkrum.
32. Voru of þíngs[18] ærir
alkunnan dag sunnu
heidar bæss í húsi
hreins[19] luktadir[20] einn.
Þá gaf skjöldúngr skýja
skríns postulum sínum
(ítr firri gud gotna
grandi) helgan anda.
33. Gefr, sá er øllum efri,
ødlíngr salar rødla
(gud magnar þrif þegna)
þjódum allt ed góda.
Gramr skóp haudr ok himna
hreggranns, sem kyn seggja:
einn er salkonúngr sólar,
snjall hjálpari allra.

---

17) leidrétt; red, Skb., eins og í 30. erindi. 18) í þessu ordi er of mjøg óljóst í Skb. 19) hrein, Skb. 20) þ. e. lokudir, læstir inni.

(Slæmr)

34. Slæm skal ek upp af aumu[21]
(eru stef lidin) hefja,
mætr ef mér vill láta
málsinni guð vinnaz.
Styrktu ávallt til verka,
vegs gnóttar, mik, drottinn;
verd ek at øngu ordi
einhlítr, nema gud beini.

35. Þat er rætt, ad dag drottins
døglíngr muni híngat
lopts, ok lýdum skipta,
ljódgims kóma af himnum.
Oss skyldi sú aldri
ógnar tíd en strída
(drótt bidi sikling sátta
sólvangs) or hug gánga.

36. Dag metr sinn at sønnu
snjallastr konúngr allra
eljunkudr um adrar
alfrídar hátídir.
Dýrka dýrligs verka
dádsterks høfudmerki
(rétt segjum) dag drottins
drjúgmørg himintørgu.

37. Menn skólu æztum unna
ángrs hrjódanda þjódar

21) þ. e. hryggilegu, skelfilegu efni, af því hann ætlar ad fara ad tala um dómsdag.

(mér berr máls á stýri
mart) af øllu hjarta.
Sidminnigr fær sannan
seima þróttr af drottni
(Kristr gefr fyrdum) fasta[22]
(fridar von), þeim er ann hanum.

38. Verdim vér ok fyrdar
(vili svo fadir skilja)
hilmiss frægs til hægri
handar allra landa;
ok þeim dýrstr frá dómi
dagskeids jøfurr leidi
oss frá ótta hvøssum
øll til himna hallar.

39. Vér skulum opt med tárum
(verdr mein, ef því seinum:
kostum, slærd at fordaz)
fridar helgan gud bidja:
ad, þá er øflugr eflir
alls sóma lýkr dómi,
fara nædim vér frída
fljótt í dýrd med drottni.

40. Køstum (allir æsta)
oss at helgum krossi
(kœuir menn), sem kunnum
(Krist eilífrar vistar).

---

[22]) þá verdr fasti, festa, stadfesta, álltíd sem nafn; vilji madr þad ekki, verdur ad breyta fridar í frid, og taka svo saman sannan frid og fasta von; sbr. 42, 7. 8.

Stadr er øllum œdri
(óttalaus) med drottni
(þjód lifir glød, sú er gœdi [23]
getr) munlegri ok betri.
41. Haldi oss frá eldi
eilífr skapa deilir,
Kristr merkr [24], ok myrkrum,
menn, er heim lídr þenna:
sva at øll í frid fullan
farim heim, er skilr beima,
alls stýranda orum
óttalaus med drottni.
42. Yfirstillir, firr þú øllu,
ítr túns himins rítar,
(harmsfullum réd ek halli
hugstrandar) mik grandi!
Mér fái miklu hærri
miskunn jøfurr sunnu
(Kristr gefr fyrdum fastan
frid), en ek kunna bidja.
43. Réd med oss, ad ódi,
(er fródr, sá er venst gódu)
greitt, hve grundvøll settag,
gøfugr prestr at hlut mestum.
Ord [25] mun allra verda
audsætt, bragar þætti

---

23) leidrétt; gedir, Skb., ir bund. 24) þannig leidrétt af J. S.; styrkr, Skb. en þá vantar annan studulinn. 25) getg.; ydr, Skb.

rammlegs húss, þar[26] er reistum,
Rúnólfr, hve fær[27] snúnat.
44. Mædaz mér á ódi
(mest þarf hóf at flestu)
(Brandr[28] hefir ørr til enda)
ordvapn[29] (kvedit drápu).
Skulu eldvidir øldu
alljósan brag kalla
(þjód hafi þekt á kvædi
þvísa) Leidarvísan.
45. Nú skal drótt á lok líta
(lopthjálms døgum optarr
dyrkim døglings verka!)
dádhress bragar þessa.
Heim ladi dýrr frá dómi
dags hallar gramr allan
(þjód hjali kirsk[30] um kvædi)
kristinn. lýd til vistar!

---

26) þannig Skb., bundid; heldur vildi eg, þess. 27) Skb. ferr, er bund. 28) leidrétt; Brandz, Skb. 29) leidrétt; ord vopns, Skb. 30) s. s. kersk, kørsk, af karskr.

# Kenníngar

Guðs (G.) og Krists (Kr.) og h. Anda (h. A.)
Haf. merkir Harmsól, Lb. Líknarbraut,
Lv. Leiðarvísan, Hv. heil. Anda vísur.

---

Angrþegnandi, sá sem afstýrir böli og sorg, Kr., Lb. 23.
ángrhrjóðandi þjóðar, Kr., Lv. 37.
ángrskerðandi, Kr., Lb. 51.
ángrstríðandi aldar, Kr., Lb. 49.
ángrstríðir öldu viggs runna (manna), Kr., Haf. 21.
ángrþverrir, h. A., Hv. 14.
árstillir, sjá stillir.
árveitir ýta, sá sem veitir mönnum árgæzku, Kr., Lb. 20.

Bragníngr vegskríns, konúngr himins, Kr., Lb. 48.
brunnr lífs, h. A., Hv. 1; b. véts, sama, Hv. 15.
budlúngr dýrðar, hlyrnis elds (sólar). Kr., Lv. 22: Haf. 21.

Dáðgeymir, geymandi mannkosta, Kr., Haf. 34.
deilir skapa, sá sem úthlutar forlögum, Kr., Lv. 41;
döglíngr, kóngr; d. dæmistóls ok sólar, G., Lv. 1.

d. lopthjálms (himins), G., Lv. 45; d. lopts ljódgims (eldíngar), G., Lv. 35.

drottinn dags hallar (himins), Kr., Lv. 15; — dags lands dádstéttar (engla), Kr., Lv. 24; — dags reitar (himins), Kr., Lb. 32; — fíra (manna), Kr., Haf. 27; heimstødu (veraldar), Kr., Haf. 17; — himins, Kr., Lb. 1: Haf. 29; — himins gotna (engla), G., Lv. 25; — himintørgu (sólar), Kr., Lv. 36; — hreggs hróts bjartloga (þrumu elds), G., Haf. 9; — jøfra, Kr., Lb. 52; — sólar fróns, haudrs (himins), Kr., Hv. 9: Lb. 23; — vegs gnóttar, G., Lv. 34; — vedr vigar ljóss (sólar), Kr., Haf. 11.

Eflir, sá sem eflir; e. alls soma, Kr., Lv. 39; e. árs, Kr., Lb. 47.

eggjandi þrísa, sem upphvetr til framfara, h. A., Hv. 15.

einskepjandi landa, skapari heims, G., Haf. 3.

Fárskerdir sjá skerdir.

fadir allra, G., Lv. 31.

fegrir, sá sem prýdir; f. sída, vagns hallar (himins), h. A., Hv. 13. 14.

festir, sá sem festir upp; f. ela ranns rítar, fróns musteris rítar (himinskjaldar, sólar), Kr., Haf. 26. 50.

fædandi þjódar þrek', sá sem gefr mønnum krapt, Kr., Haf. 54.

fædir elsku, fremdar ráðs, Kr., Lb. 23. 26, sjá
líknfædir.
fíngr hægri handar sólar salkonúngs, H. A.,
Hv. 12.
fórn lífs, Kr., Lb. 37.
fridkennandi, Kr., Lv. 27.
frømudr, sá sem eflir, prýdir; f. ástar, regns há-
tunnu ranns (himins), H. A., Hv. 1. 4.
frónspennir sjá spennir.
fylkir, Kóngr; f. himins, Kr., Haf. 35; f. vedr hall-
ar (himins), G., Haf. 4.
fyrirtignari fødur kverkr, H. A., Hv. 12.

Gætir glyggranns (himins), gumna (manna), him-
inljóma (sólar), røduls ranns (himins), vitra
hølda vegs, Kr., Lb. 28. 48: Haf. 37. 10:
Lb. 13.
geypnandi, sá sem lykr í hnefa sínum; g. skýtjalds
skrín (himin), Kr., Haf. 29.
gnæfandi, sá sem fer hátt; logskríns g., sá sem er
á himnum uppi, Kr., Haf. 58.
gramr, konúngr; g. hreggranns, landa ræfrs (him-
ins), G., Lv. 25: Haf. 43.; g. heids tjalds
hyrjar (sólar), elserkjar (himins), aldar kyns
(manna), sunnu, glyggs haudrs (himins), Kr.,
Haf. 14. 18. 34. 52. 60; g. dægra láds,
sólhallar, geisla grundar, sólstéttar, dags hall-
ar (himins), Kr., Lb. 22. 30. 42. 45; g.
lands (jardar), Kr., Lb. 24.

græðari, Kr., Lb. 16; g. aldar (manna), h. A., Hv. 5.

græðir, læknir, Kr., Lb. 44.

guð heilagra hugfyldra hølda, Kr., Hv. 2.

Happvinnandi, sjá vinnandi.

harri, konúngr, h. fjalla salar (himins), S., háfs hreggranns fagrgims (sólar), S., heimstýris (sólar), S., Lv. 1. 2. 14; h. elskríns, þrimu láðs tjalda (himins), Kr., Lb. 31: Haf. 41.

heimspennir, sjá spennir.

hildíngr, kongr; h. hølda, lofða kyns (manna), Kr., Lb. 15: Haf. 36; h. mána hvols, mána hauðrs (himins) Lb. 7. 18; h. himinbirti (sólar), Kr., Haf. 60; h. mildi, Kr., Haf. 19.

hilmir, konúngr; h. hreggþjálma (himins), S., Lv. 4; h. hlýrna (himna), Kr., Lb. 25; h. hríðtjalds flytileygs (sólar), Kr., Haf. 28; h. allra landa, Kr., Lv. 38; h. hófs, Kr., Lb. 16.

himinstýrir, Kr., Lb. 38.

hirtir, sá sem agstýrir: h. sjúks hugar, h. A., Hv. 13.

hirðir, sá sem geymir: h. fróns, S., Hv. 17.

hjálmspennandi, sjá spennandi.

hreggvørðr, sjá vørðr.

hreinskapaðr, sá sem skapar hreinan: h. himna, sem gerir h. hreina, h. A., Hv. 10.

huggari, h. A., Hv. 3. 11. 16.|

Jøfurr, konúngr; j. himna, dagskeiðs, byrjar hlunns,

hreggs háborga, fleygs foldar ægis, heid tjalds, vedrskríns. Kr., Lv. 26. 38: Haf. 12. 45. 56: Lb. 2. 8; j. dreingja (manna), Kr., Haf. 62; j. sunnu (sólar), Kr., Lv. 40: Haf. 65; j. hreggranns, ela váugs (himins), S., Lv. 17; Haf. 32; j. flugreinar leygs (sólar), S., Haf. 44.

Kannandi alls, sá sem þekkir allt, Kr., Lb. 5.
kennir krapts. almáttugr, Kr., Lb. 23.
konúngr elhallar, sólar sals (himins), S., Haf. 2: Lv. 25; k. dróttar, fyrda (manna), Kr., Lb. 42. 13; k. jøfra, Kr., Lb. 20; k. allra, Kr., Lv. 36; k. fróns, Kr., Lb. 33; k. eyhjálms, vedra tjalds, sóltjalds, þeyláds, elsetrs, dagstalls, sunnu hvels fjørnis (himins), Kr., Lb. 21. 50: Haf. 10. 15. 20. 35. 36.

Lamb guds, Kr., Lb. 37.
landreki, konúngr; l. krapta, Kr., Haf. 15; l. vedrs strandar (himins), Kr., Haf. 61.
lausnari, Kr., Lb. 11. 52.
láðvaldr, sjá valdr.
læknir lýðs, Kr., Lb. 31.
lífgjafi manna, Kr., Haf. 9.
lífstýrir láðs lofda, sá sem stjórnar lífi jardnesKra manna, Kr., Lb. 5.
líknfædir, sá sem audsýnir miskun, Kr., Lb. 47.
lofdúngr, kóngr; l. himinríkis, Kr., Lb. 10.

Meinhrjódandi, eydandi bøls, S., Lv. 11.

mærdvinnandi manna, sá sem eflir sóma manna, Kr., Haf. 8.

mildíngr, konúngr; m. heida tjalds, dýrrar dagmærar (himins), Kr., Lb. 12: Lv. 23; m. sunnu, Kr., Haf. 23.

miskunnandi ýta, Kr., Haf. 63.

Ofkmøgr, ástkærr sonr; ó. drottins, Kr., Hv. 16.

ødlíngr, konúngr; ø. árs, Kr., Lb. 46: ø. rødla, Kr., Haf. 16; ø. rødla salar (himins), G., Lv. 33; ø. lopthjálms, mána tjalds (himins) Kr., Lv. 30: Haf. 31.

Ræsir, kóngr; r. hins sanna tírar (heidrs), Kr., Haf. 62: r. seggja sveitar (manna), Kr., Haf. 51: r. regnhallar, regnsals, rødla býss, ramlegs røduls buss (himins), Kr., Haf 28. Lb. 50: 19: Haf. 59; r. regnbyss (himins), h. A., Hv. 6.

reynir virda, Kr., Haf. 52.

Salkonúngr sólar, k. sólar sals (himins), G., Hv. 12. 16.

salvørdr, sjá vørdr,

sannstýrandi, sannr stýrandi; s. sólhaudrs (himins), Kr., Haf. 27.

sættandi ýta, Kr. Haf. 26.

sættir bragna kyns, ýta kyns (manna), Kr., Haf. 54, 58.

siklíngr. kóngr; s. sunnu, G, Lv. 13: s. himinríkis, G., Lv. 14; s. haudrsjørnis, fróns tjalds,

sólar landa, sólbryggju, sólvángs (himins), Kr., Lb. 19. 24: Lv. 26. 30. 35.

sidgætir, Kr., Lb. 46.

skepjandi, skapandi; s. láds, Kr., Haf. 24, sjá einskepjandi.

skerdir, sá sem eydir: s. fridar fárs, G., Lv. 11.

skilfíngr, kóngr; s. ars, Kr., Lb. 10.

skjøldúngr, konúngr; s. heidtjalds skríns, skýja skríns, skýja tjalds (himins) ok aldar (manna), Kr., Lb. 25: Lv. 32: Haf. 20.

skríngeypnandi, sjá geypnandi.

skrýdir, sá sem prýdir; s. ský ja slódar skrins (himins). Kr., Haf. 19.

søkkvi, høfundr, skapari; s. sunnu sætrs (himins), G., Haf. 49.

sonr sólar salkonúngs (guds), Kr., Hv. 16.

spennandi, sá sem spannar; s. heidar hjálms (himins), Kr., Lb. 9.

spennir, sá sem spannar; s. fróns fagrtjalda (himins), G., Haf. 44; s. heims, Kr., Haf. 64.

stillandi himins hnossa, stýrandi himintúngla. G., Haf. 4.

stillir, konúngr; s. fárs, hreggtjalda, hárs hrídar nausts (himins), Kr., Lb. 17: Haf. 1. 23.

stýrandi alls, Kr., Lv. 41; s. sunnu hjálms (himins), Kr., 33.

stýrir, sá sem stýrir, rædr; s. alls tírar, Kr., Lv. 24: s. himins, Kr., Lv. 27; s. heims hallar, G., Lv. 21.

Tiggi, kóngr; t. túnglbryggju (himins), G., Lv. 19.
tínir, sá sem safnar; t. friðar, eflandi fr., Kr., Haf. 55.
Valdr, sá sem á, hefir, sá sem ræður; v. dýrðar, mildi, Kr., Haf. 36: Hv. 8; v. heims, Kr., Haf. 20: v. leiptra hróts glóða láðs bláfinna hreggs tjalda, veðra grundar, byrjar birtiranns (himins), Kr., Haf. 53. 57. 63: Lb. 28.
varðandi, sá sem varðveitir: v. jarðar, Kr., 40.
veitir góðra hluta, G., Lv. 8; v. friðar, Kr., Haf. 24.
verð heims ok virða, Kr., Lb. 36.
vinnandi hølda happs, Kr., Haf. 57.
vísi, sá sem vísar, sýnir; v. dáða, vegs, Kr., Lb 7. 12; konúngr, v. sunnu setrs (himins), Kr., Haf. 13.
vørðr grundar sals, vallræfrs (himins), G. Lv. 6. 10; v. gumna, fróns, Kr., Haf. 52: Lb. 15: v. hreggs hábrautar, fjalla salar, skýtjalds, sólar slóðar (himins), Kr., Haf. 5. 30. 65. Lb. 29.
Yfirstillir, yfirkonúngr; y. himins rítar túns (himins), Kr., Lv. 42.
yfirþengill, yfirkóngr; y. engla, G., Lv. 14.
ýngvi, konúngr; y. þjóðar, Kr., Haf. 7.
Þengill, konúngr; þ. skýja, Kr., Haf. 12: Lb. 43.
Þrekfæðandi, sjá fæðandi.
Þrifgæðir þjóðar, sá sem eflir sælu manna, Kr., Lb. 4.
Þrifvaldr aldar, høfundur farsældar manna, Kr., Haf. 22.
Þverrir, sá sem eyðir; þ. svika, Kr., Lb. 11.

---

# Skírsla

## um Beſsaſtada-Skóla fyrir árid 1843—1844.

Á bladſ. 3 og 4 í ſkírſlu minni í fyrra vor, hvar eg undireins ſkírſkotadi til ſkírſlunnar fyrir ſkólaárid 1840—1841, blſ. 12 og 13, gat eg um áſigkomulag húſa þeirra, ſem vidkoma Beſsaſtada-ſkóla og undireins um hvad gért hafdi verid þeim til endurbótar. Sídan hefir ekki meira vid þau verid gért enn brádaſta nauðſýn krafdi, vegna þeſs menn eigi viſsu nema ad þá og þá ſkólinn flyttiſt til Reykjavíkur, ſem nú er ogſvo framkomid; þared farid er ad leggja grundvøll til þeſs ſkólahúſs, ſem þar á ad byggjaſt og viſsulega verdur búid ad byggja fyrir ſkóla-ársins byrjun 1845. Skólahúſin á Beſsaſtødum ſtanda øll hérumbil vid hid ſama, ſem undanfarin ár, og þarf þeim eigi framar ad lýſa; þó náttúrlegt ſé ad þeim ár eptir ár fari aptur, þegar lítid er vid þau gjørt.

Í ſkólanum hafa verid ſkólaárid ſem nú er ad enda 40 reglulegir læriſveinar, og þeim eins og fyrri árin tvíſkipt, ſjá ſkírſluna fyrir ſkóla-árid 1840—41 blſ.

14—16. Héradauki hafa 6 auka lærisveinar notid tilsagnar kauplaust med skólans lærisveinum, 2 med Efribekkíngum, en 4 med Nedribekkíngum, med sama skilyrdi, sem gétid er um í nýnefudri skólaskírslu bls. 16. Nokkrir af þeim hafa samt ekki notid tilsagnar í öllu því, er í þeim bekk, er þeir hafa fylgt, hefir verid kénnt.

Hvad hvör okkar 4 kénnara (sem eru hinir sömu sem undanfarin ár) hafa yfirfarid, læt eg hvörn fyrir sig seigja frá.

1) Lector Theolog: Jón Jónsson. Eg hefi kénnt: A. Í kristilegrar trúar lærdómi: a) Í Efrabekk kristilegan sidalærdóm, og lagt til grundvallar Biskups Dr. Fogtmanus lærdómsbók og yfirfarid í henni 2 kapit. 1—3 atridi. Eg var nokkud lángordur um eiginlegleika sálarinnar, sem §§ 47 og 48 géfa tilefni til, því þórt eg hefdi yfirfarid sömu §§ í fyrra, ítrekadi eg þad samt aptur, sem eg þá hafdi kénnt, vegna þess nýir lærisveinar fluttust uppí Efrabekk, og hefi verid nokkud lángordari enn þá; þared eg héldt, og held ad þekkíng mannsins náttúru, ekki einúngis yfirhöfud, heldur í sínum einstakleika, sé besti grundvöllur, sem menn géta lagt undir réttan skilníng á mannsins skyldum, ekki einúngis á skyldum manna yfirhöfud, heldur á því, hvad hvör útaf fyrir sig hefir helst þörf á ad hafa gát á eptir sínu einstaklega edli. Ad eg héri ekki hafi farid djúpann heimspekínga veg, gétur hverr nærgætinn gétid nærri. Minn höfudtilgángur var ad gjöra lærisveinunum léttara ad skoda skyldurnar frá réttri hlid og þeirra innbyrdis samband, og nudireins eg leitadist vid ad út-

lista skyldulærdómana á vísindalegann hátt lét eg mér annt um, og það umframm allt, að verka á lærisveinanna tilfinníngu og helga þeirra hug og hjarta. b) Í Neðrabekk yfirfór eg alla biblíusögunna eptir Herslebs Lærdómsbók, að mestuleiti examinando, þó yfirfór eg á undan kafla og kafla með lærisveininnum og upplýsti það í honum, sem ég héldt að upplýsíngar viðþyrfti og eg ekki gjæti haganlega undir yfirheyrslunni géfið upplýsíng um. B. Í N. T. hefi eg þetta skóla-ár útlistað fyrir Efribekkíngum 1—14 kapp. Markúsar Guðspjalls; en komst það ekki út, vegna þess óhappa tilfellis, sem Skólinn varð fyrir um páskana, og síðar verður gétið. C. Í Hebresku héfi eg yfirfarið: a) með Efribekkjar lærisveinum 41—50 kapp. að undanteknum 49da kap.; allt grammatice, einúngis gérið um fátteitt, er þénaði að sönnuleiti til skilníngs á því lésna. b) Með Neðribekkíngum hefi eg fyrir utan þá mér fyrirskrifuðu tíma, á þeim tímum sem skólalærisveininnum voru hentugastir — yfirfarið með þeim lærisveinum er ekki höfðu áður hebresku séð, og með aukalærisveinunum, Lindbergs hebresku málfræði, þó ekki til hlýtar seinni partinn og yfirheyrt í stórköblum þá í bekknum, sem þessa málfræði höfðu áður lésið, og loksins las eg með öllum 8 fyrstu versin af 1 Mós. b. 3 kap. Að eg ekki til hlýtar gat yfirfarið seinni part Lindbergs málfræðisbókar og ekki gat lesið meira í 1 Mós. b. var sú hindran orsök í sem kom í veginn eptir páskana, og eg gét um síðar. D. Héfi eg lagfært Efribekkínga dönsku stíla, eins og undanfarin ár 2svar í

viku*); annanhvorn daginn hefir Dr. S. Egilsson lagfært helmíng þeirra. Tvísvar hefi eg þetta ár látið Efrabekkjar lærisveina svara skriflega spursmálum, sem eg fyrir þá hefi lagt, og hefi eg í hvört skipti setið yfir þeim á medan þeir voru ad svara þeim, og ad öllu leiti hagad mér eins og eg hefi gétid um í skírslu m. fyrir árið 1842—1843 bls. 11.

Töflu yfir tímana, sem ætlud er hverri vísindagrein í skólanum og hvörjum kénnara ad kénna á, géf eg ekki um hérmed ad láta prenta, því allt steudur þad vid hid sama sem undanfarin ár og undanfarinna ára skírslur sýna.

2) Dr. Philosoph: H. Schevíng. Skólaárið, eptir þad einsog ad undanförnu, ad eg hafdi látið Nedrabekkjar lærisveina yfirfara eptir Madvigs lat. málfrædi hinar latínsku nafna og sagnabreitíngar, ásamt enn hellsta þaradlútandi, las eg Cic. orat. pro Roscio Amerino, pro lege Manilia, og Archia poeta, med sama hætti og adferd sem ádur hefir verid skírt frá. Sídan las eg tvær fyrri bækur Horatii Odarum, og lét lærisveinana um leid kynna sér bragarháttu kvædanna. Af því fáeinir tímar urdu afgángs,

*) Athugagr: Í Nóvember og December lagfærdi *Candid. Philos.* Hra Grímur Thomsen, sem um þær mundir staddur var á Bessastödum, danska stíla fyrir mig, þó undir mínni umsjón; og sýndist mér honum fara þad mikid vel. Hann sagdi og nokkrum Efribekkingum til í Frönsku og Ensku kauplaust. Fáeinir lærisveinar hafa og svo í vetur lagt sig eptir Þjóðversku máli, og tekið nokkrum framförum þar í.

lét eg lærísveinana fljótlega yfirfara Cic. Orat. pro Ligario. Loksins hefi eg einsog að undanförnu lagfært tvísvar í viku latínska stíla þeirra 12 lærísveina, sem settust eptir í bekkunum á næstliðnu hausti. Með Efrabekkjar lærísveinum yfirfór eg öll. Cic. Officia, og báðar bækur sendibréfa Horatiusar, Arte poetica (skáldu) meðtaldri. Varð yfirferðin á Horatius nokkuð seinni fyrir þá sök, að 2að bdi. Oreliusar stærri útgáfu barst Efrabekkjar lærísveinum í hendur, svo mér gafst færi á að kynna mér hana, og leitaðist við að sýna lærísveinunum, að útgáfa þessi aungvanveginn fullnægir eptirvæntingu þeirri, sem slíkur maður mun hafa vakið hjá mörgum. Loksins hefi eg einsog að undanförnu, lagfært lat. stíla Efrab lærísveina 2svar í viku.

3) Dr. Theol, S. Egilsson: Frá því Skólinn byrjaði í Október-mánuði 1843, og til þess að uppiestrartíminn hófst með næsta Maí-mánuði, yfirfór eg 1) með Efrabekkjar Lærísveinum; a) í Grísku, Málsvörn Sókratesar og samtal það, er kallast Kríton, eptir Platon heimspeking, og tvær síðustu bækurnar af Odysseifsdrápu. b) í Dönsku, eina stund í viku, í Rabekks dönsku Lestrarbók; útg. Khfn 1818, bls. 47—64, 75—90, 253—265, 294—313. c) Paradauki hefi eg lagfært danska stíla með hálfum Efrabekk, einusinni í viku. 2) Með Neðrabekkjar Lærísveinum: a) í Grísku, tvær síðustu bækurnar af Senófons Anabasis, eptir það að eg áður hafði rifjað upp fyrir þeim aðalbreitíngar hinnar grísku málfræði. b) Leiðrétti eg 13 latínska stíla einusinni í hvörri viku. 3) Báðir Bekkir

yfirfórn í veraldarsøgunni, eptir Kofods ágripi, Khfn. 1842, Søgu Rómverja keisara, Danmerkur, Svíaríkis og Noregs, Rúsa, Prúsa, Kabíta og Frakka, og komst í Frakkasøgunni að 1715.

4) Kénnari Skólans Björn Gunnlaugsson. Skólaárið 1843—1844 yfirfór eg í Skólanum; 1) í landaskipunarfræði í efrabekk eptir Velschow, en í neðrabekk eptir Velschow og Riise Norveg, Svíaríki, Rúsland í Norðurálfu, Prúsaríki, Þjóðverjaland, Niðurlønd, Velgín og Bretaríki. Aðferðina brúkaði eg sem fyrri ár, en skrifaði eingvar spurníngar. 2) Hjá efrabekkíngum yfirfór eg Reikníngsfræði og Algebru eptir Ursíns Lærdómsbók, með sømu aðferð, sem í hitt eð fyrra. 3) Í neðrabekk, Talnalist eptir Ursíns reikníngsbók, með sømu aðferð sem í fyrra. Þannig voru yfirfarnar þær 4 reikníngstegundir í heilu og brotnu, viðkéndum og óviðkéndum tølum, þríliðu heillra og brotinna talna, øfug þrílida, sú rétta og øfuga tvøfalda regla. Þeir sem leingst voru komnir í reikníngi reiknuðu þaraðauki æfíngardæmin „Nyttige og curiøse Opgaver til Øvelse" bls. 87—96. 4) Yfirfór eg með lærisveinunum í neðrabekk í Rahbeks Lestrarbók 2ru bindi; sendibréf Holbergs, Sneedorphs eldra og ýngra, ræður Jacobi, Kampmans Mallings og Colbjørnsens; kvæði Baggesens til síns føðurlands, Faye's útsjón yfir líf sitt, Frankenau's Christjánsborgar rústir, Lundbyes vonina, Gutfelds við grøf føður síns, Ewalds sælu í Rúngsted, Taarups lofsaung, Baggesens sképnunnar Halleluja, Storms og

Frímans loffaungva. 5) Loksins hefi eg lagfært stíla eins og hin fyrri árin.

---

Hér á undan á bls. 1 var gétid um ad 40 reglulegir læriſveinar hefdu verid í vetur í ſkólanum. Hvørt ſæti hverjum þeirra, ſem eptir urdu í ſkólanum, hlotnadiſt í fyrra vor, eptir yfirheyrsluna í Majó, ſýnir Taflan B, er fylgdi ſkírslu m: í fyrra, og í henni bls: 5 er víſad til fyrri ſkírsla eptir hverjum reglum læriſveinunum hefir verid nidurradad, og þegar ſamanborin er nidurrødunin er gjørdiſt í hauſted var, og ſtendur í þeſsarri, vid nefnda Tøflu B. ſéſt gløgglega hvørja umbreitíngu mismunur latínſka ſtíls hvørs fyrir ſig í hauſt er var, í ſamanburdi vid vitnisburd latínſka ſtílsins í nefndri Tøflu B. hefir gjørt á ſætum. Rødin vard í hauſt þeſsi: A. í Efrabekk: 1) Jón Jónsſon. 2) Bjørn Haldórsſon 3) Giſli Brinjulvſen. 4) Steindór Steffánsſon. 5) Gudmundur Bjarnaſon. 6) Jón Sigurdsſon. 7) Lárus M. S. Johnſen. 8) Þórdur Thorgrimſen. 6) Arni Giſlaſon. 10) Oddur Hallgrímsſon. 11) Bergur Haldórsſon. 12) Finnur Þorſteinsſon. 13) Magnús Giſlaſon. 14) Oddur Sveinsſon. 15) Þorvaldur Bødvarsſon. 16) Snorri Nordfjørd. 17) Jóhann Knútur Benediktsſon. 18) Eiríkur Jónsſon. 19) Jónas Thorſtenſen. 20) Benedikt Grøndal. 21) Jón Andun Bløndal. 22) Bogi Thorarenſen. 23) Gunnlaugur Guttorms-

son. 24) Steffán Thorderſen. Nr. 17—23 flutt-
uſt úr Nedrabekk uppí Efrabekk, en Nr. 24 Steffán
Thorderſen var ekki fyrr enn í hauſt ed var inntekinn
í ſkólan og ſettur þeſsvegna nedſtur ſem óreyndur, nema
í Latínſkum ſtíl. Eptir rødinni í fyrra vor vóru nokkr-
ir í Nedrabekk fyrir ofan Gunnlaug Guttormsſon,
ſem ekki voru uppteknir í Efrabekk, en af því hann
hafdi verid 3 ár í Nedrabekk, og þó nokkud kominn í
ſkolalærdómi ádur enn hann kom í ſkólan, og hefir lítid
lag á ad láta í opinberri yfirheyrſlu ſitt ljós ſkýna,
héldum, vid kénnararnir rádlegaſt ad taka hann uppí
Efrabekk; hann hefir og ſýnt í vetur ad hann hefir verid
vel hæfur til þeſs. B. J Nedrabekk urdu eptir:
1) Benedikt Kriſtjánsſon. 2) Magnús Thorlacius.
3) Bjørn Pétursſon. 4) Páll Jónsſon. 5)
Steffán Gudnaſon. 6) Jón Snæbjørnsſon. 7)
Magnús Grímsſon. 8) Fridrik Bjarnaſon; en
þeſsir nýir Læriſveinar bættuſt vid í hann: 9. Þórd-
ur Jónasſen, ſonur Landsyfirréttar Aſseſsors Þ.
Jonasſen. 10) Jón Conſtant Finſen, ſonur Kam-
merráds Ol. ſál. Finſens, Landsyfirréttar Aſseſsors.
11) Bergur Jónsſon. 12) Brinjólfur Jónsſon,
ſynir Jóns ſál. Bergsſonar á Hofi í Alptafyrdi.
13) Hannes Chr. Steingr. Finſen, bródir Nr. 10.
14) Bjarni Thorlacíus, ſonur Preſts Sira Einars
Thorlaciuſar á Saurbæ í Eyafjardar ſýſlu. 15)
Jóhannes Haldórsſon, ſonur Próſaſts ſál. Haldórs
Amundaſonar á Melſtad. 16) Jón Þórdarſon,
ſonur Kapeláns Sira Þórdar Arnaſonar á Klauſtur-

hólum í Árnesſs ſýſlu. Að 2 fleiri urðu innteknir í ſkólann, en þaðan útſkrifuðuſt í vor eð var, kom til af því, að 2ur var ráðið til að hætta við ſkóla⸗lærdóm.

Eingum af þeim nýinnteknu í ſkólan var um⸗liðið ſumar ølmuſa veitt; enn af þeim, ſem áður vóru í ſkólanum af þeim, ſem eru í Efrabekk, var Nr. 3. 14. 15. 17. 18. 19. 21. 22 veitt ølmuſsa háif, og eins í Neðrabekk, Nr. 2. 3. 4. 6. 7. 8; ſvo af Efrabekkjar læriſveinum hafa haft ſkóla⸗árið, ſem nú er að enda, heila ølmuſu: Nr. 1—19 og 22 og Nr. 21 hálfa ølmuſsu, en Nr. 23 og 24 einga ølmuſsu; en í Neðrabekk hefir Nr. 1—4. 6. 7. 8 notið hálfrar ølm⸗uſsu, en hinir 9 eingrar. Þarfyrir utan hefir 9 læriſveinum verið af Stiptinu þetta ár veittur ſtirkur til nauðſynlegra bóka kaupa, er hljóp fyrir alla tilſamans 27 rbd. 61 ſk.

Rétt á undan og um það leitið að yfirheyrſlan átti að byrja í ſkólanum uppkom þar ſvo megn ſjúkdóm⸗ur, að fullur helfíngur læriſveinanna ſýktiſt, og með hverjum degi ókſt þeirra tala er rúmfaſtir urðu; eg leitaði því ráða til landlæknirs vors, ſem daginn eptir, þann 22ann Maii kom áſamt Stiptamtmanni og Biſkupi að Beſsaſtøðum og var það af þeim ſam⸗eiginlega, ſvovel ſem af oſs kénnurunum álitið ráðlegaſt, að øllum læriſveinunum, að undanteknum þeim, ſem ættu að útſkrifaſt í vor, ſkyldi géfaſt burtfarar leifi og hvet⸗jaſt til að yfirgéfa ſkólan ſem fyrſt; ſem þeir og ſvo gjørðu, ſem gátu og voru til þeſs færir. Þeſsa vegna

voru einúngis þeir, sem áttu að útskrifast, yfirheyrðir opinberlega, sem ekki vóru nema 5. Hvernig hverjum þeirra tókst í því opinbera lærdómsprófi sýnir medfylgjandi Tafla.

Sjø var upprunalega ætlast til að útskrifuðust, nefnilega, auk þeirra í Toflunni nefndu, þessir: Bjørn Haldórsson og Steindór Steffánsson. Sá fyrrnefndi gát vegna sjúkdóms ekki lagt sig undir hið opinbera lærdómspróf í þessum mánuði, en vér vonum að hann géti það á lestunum; hinn síðarnefndi, Steindór Steffánsson druknaði næsta dag fyrir Páska þann 6ta Apríls mánaðar ásamt øðrum, líka efnilegum skólalærisveini, Byrni Péturssyni, á bakaferð frá Skildinganesi, hvert þeir fluttu nokkra skólabræður sína, sem boðnir høfðu verið til Reykjavíkur á Páskunum. Sá fyrri fannst strax, en látin, en hinn síðarnefndi hefir en ekki fundist, þrátt fyrir margar tilraunir, sem þartil hafa gerðar verið. Þetta óhapp gerði eptir Páskana um hríð hindrun á kénslu í skólanum. Steindór sál. var grafinn þann 16da Apríls og honum og Byrni sál. settar þessar grafminníngar. Sú fyrri er samin af Stiptprófasti Á. Helgasyni, hin síðari af Dr. Theol. Sv. Egilssyni:

Hér hvílir
Skólalærisveinn Steindór Stephánsson
fæddur á Oddgeirshólum 16da Febr. 1823.
Dáinn 6ta Aprílis 1844.
Var fjørugur, gáfaður og mikið hjartagóður
af Guði gésinn

fór fram med aldri í øllu gódu.
Hann var einka sonur sinnar módur
og hún er ekkja.
Gráttu ekki! var fordum sagt vid ekkjuna í Nain.
Sami er til sem taladi þessi-ord, og gaf
svo aptur soninn sinni módur.
Á sínum tíma géfur hann og sonin aptur
þessari módur.

---

*) In obitum
bonæ spei iuvenum
Scholæ Bessastadensis alumnorùm
**STEINDORIS STEPHANI**
et
**BJÖRNIS PETRÆI,**
prid: Paschatos anni MDCCCXLIV
submersorum.

---

*Ecce, duo iuvenes, decusso flore iuventæ*
*quam cito, Pieridum deseruere chorum!*
*Calci extremæ inhians alter, stadio alter anhelans*
*nunc uno metam tempore uterqae tenet.*
*Felices animæ, fortes piæque valete!*
*ut vos, sic nostrum sors sua quemque manet.*

---

*) Þ. e. Vid andlát mannvænlegra Lærisveina í Bessastadaskóla, Steindórs Steffánssonar og Bjørns Pétursssonar, er drukknudu adfángadag Páska 1844:

Sjá, tveir úngir menn eru horfnir á burt úr

Skólabrædur þeirra Sáludu báru líkid bædi úr skólastofunni úti Kirkuna, og úr henni til grafarinnar. Herra Prófastur, Dómkirkju prestur H. Thordarsen R. af D. hélt húsrædu yfir kistunni í efri stofu skólans, og Herra Stiptsprófastur A. Helgason R. af D. adra rædu í kirkjunni ádur enn hinn Sáladi var þadan útborinn til síns legstadar. Bádar rædurnar læt eg hérmed fylgja í þeirri rød, sem þær voru haldnar.

---

samfélagi vorra Mentabrædra! Hversu snøgglega vard þeirra æskublóm afhøggvid! Annar þeirra var ad eins ókominn á skeidsendann, hinn hljóp fram skeidid ótraudur: nú hafa bádir nád takmarkinu á sama tíma. Vér kvedjum ydur, sælu andir, þér hinar hugrøkku og hjartaprúdu! Eins og þér áttud ydvart, svo á hverr voru sitt hlutfall í vændum.

# Ræda

## haldin í Bessastaða Skóla

þann 16da Aprílis 1844

í minníngu þess sorglega atburðar að tveir skólans lærisveinar drukknuðu á Skérjafyrði þann 6ta Aprílis.

---

Háttvyrðtu og elskulegu Tilheyrendur!

Eg hefði feginn óskað: að þessi stund yrði frá mér tekin, en tilmæli úngra ástvina knýa mig til að drekka einnig þenna sorgarbikar, er eg á að mæla nokkur orð yfir þessari kistu, í hvörri hvílir andvana lík lærisveinsins Steindórs sál. Stephánssonar, hjá hvörjum vér í anda ímyndum oss að hvíli annar lærisveinn, Björn sál. Pétursson, þó lík hans ei sé fundið; báðum þessum varð hið sama sorglega slis að bana. — O hvörsu var allt ódruvísi hér að kvöldi enn það var að morgni, og það skéði, Drottinn! í skyndi fyrir þér! Hvörsu innilega hluttekníngu vakti þetta hvervetna, so að slá hryggilegi atburðurinn á aðfángadaginn dró jafnvel úr þeim fögnuði sem menn hugðu til af upprisu hátíð Drottins, og — þó bar hana að so rétt á eptir, einsog oss væri einmidt bendt á hana, þessa miklu lífsins hátíð, sosem það eina, er gjæti

og ætti að leiða hugsanir vorar frá þessum sorglega dauðans atburði til hinna gleðilegu lífsins hugleiðínga, sem bundnar eru við hið æðsta og heilagasta nafn undir sólunni. Háleit er þessi von, og fagurlega geislar hún í náttmyrkrunum þegar hið sorgmædda hjarta leitar hennar. — Enn — sorg kristinna manna er líka æruverðug, þegar hún kémur af rækt hjartans, og þegar hún er ekki einsog þeirra sem einga von hafa. — Og hvør gétur annað enn verið hryggur við þenna atburð?

Þegar Foreldrarnir fá þessa harmafregn, munu þeir grátandi seigja: með sorg mun eg stíga niður í grøfina til sonar míns. — Systurnar munu kvarta: hjartað vill bresta í mér. — Trúfastir og føðurlega sinnaðir kénnendur álíta sér so nærri høggið, sem hefðu þeir mist børn sín — og — hér kveina so margir æskuvinir af hreinskilnum og viðkvæmum hjørtum: Eg trega þig, bróðir minn Jónatan! þú varst mér so yfrið kjær! — Vér, hinir eldri, sem áður høfum í skóla verið, urðum einnig mjøg og óvenjulega hrelldir, einganveginn einúngis eður mest af því að sumir af oss eiga syni eður náúnga í skólanum, sem gjætu orðið fyrir líku slisi; heldur lifir jafnan með oss hluttekníng fyrir þeim er gánga sama veg og vér høfum geingið sjálfir. — Vér minnumst jafnan með gleði vors skóla lífs, þá vér ekki enn þá vorum vaknaðir af lífsins æskudraumi. — Vér gétum ei annað, meðan vér lifum, en tekið þátt

í öllu sorglegu og gledilegu sem mætir hinum yngri er. gánga sama-feril og vér höfum geingið, já, gánga hann so allskostar hinn sama, ekki einúngis hvad snertir vísindin, sem meiga heita hin sömu, edur aldursrekið, sem er líkt, heldur eru líka húsin hin sömu, vegurinn hinn sami bædi úti og inni, og hve opt hafa margir, þó eg ekki síst, farid um þann veg, sem þessi ógleimanlegu slis vildu til á, og stundum farid hann so ógjætilega, ad mér nú rís hugur vid. — Þó stend eg hér enn á fornum stödvum, ekki einsog fordum, þá allt lék mér í lyndi heldur er eg hér nú staddur þess sorglega erindis ad minnast þess harms, er ödrum brædrum mínum nú í fyrsta sinni vard þad ad slisi, sem fleytst hefir ádur bædi mér og so mörgum ödrum — Gud minn gódur! Þitt ráð er óransakanlegt og þinir veigir ófinnanlegir, so mjög sem himininn er jördinni hærri, so eru líka þínar hugsanir ædri enn vorar hugsanir — þegar þú seigir: komid þid mannanna börn, þá koma þau, og þegar þú seigir: Farid aptur, þá fara þau — þú ert herra lífsins og daudans!

Þad sem nú enn eykur vora hluttekníngu — eg tala helst um oss sem ádur höfum geingid skólaveiginn og fáum þessvegna betur enn margir adrir gétid því nærri sem fyrirkémur á þeim veigi — þad sem enn, vilda eg segja, eykur vora harma, er tjón úngra manna, einkum þeirra sem vér þykjumst fyrirsjá ad kappsamlega muni hlaupa

á vísdómsins skeidvelli — því kornskéran er mikil enn verkamennirnir eru fáir. — Þessi ord — eins og fleyri sem sumir halda Frelsarinn hafi einúngis talad til lærisveinanna og eigi einúngis heima vid tímana sem þá voru — hafa ævarandi þýdíngu, því þeir sem géti heitad sannir verkamenn í Guds akri eru allajafna fáir á móti hinum, sem ad vísu ern kalladir, en ekki útvaldir — og hvør vísindagrein sem er, þá á hún sér sinn reit í Guds akri og þarf sinn verkamann. — Enn þótt nú þannig sannindin séu morg, þá er ekki sannleikurinn nema einn, og ad honum verdur allt ad stefna, en — Gud er sannleikurinn. —

Vér, sem eldri erum, sjáum best, edur ættum ad sjá, hvørsu mikid oss ábrestur í verki kallanar vorrar, en viljum þó ad framgengt meigi verda Guds verki í heiminum — þessvegna gledjumst vér hvønær sem vér heyrum talad um efnilega únglínga, af því vér vonum, ad þar sem vér hættum í veikleika, þar munu þeir halda áfram í krapti, og — líkt og Símeon, er stód vid grafarbarminn, gladdist, þegar hann leit barnid Jesús, í von um betri tíma sem hann þó ei sjálfur bjóst vid ad sjá, svo er og hvørjum fullordnum edur gømlum ætíd sæmandi ad gledjast vid sømu von, er hann litur æskuna, og — hvar mundi sú von fremur innrætast oss enn hér, á þessum stad, hvar svo margir efni-

legir æskumenn vídsvegar úr landinu eru samankomnir, allir í því sama skyni, sem er, eptir Þeirri náð og Þeim gáfum sem Guð hefir hvørjum gèfið, að gjøra sig að hæfilegum verkamønnum í víngarði Drottins. — En — sem vèr nú með vonarinnar blídu tilfinníng rennum augunum til allra Þessara, og álítum Þá sem Drottins Nasírea, svo sem innvígda til ad Þjóna Guði og mønnum, Þá tekur oss mikil sorg og harmur, er vèr sjáum ad tvo, einhvørja medal hinna efnileguſtu, vantar úr Þessum skara — tveir liðir eru brostnir úr vonarinnar kédju.

Steindór sálugi átti ad útskrifast í vor, og sigla til Háskólans ad sumri — hann var einkasonur móður sinnar, en móðir hans er ekkja. — Hann var hinn efnilegasti, velgáfadur og í sumum vísindum sagður frábær. — Lundin var hrein og bein, einardleg, karlmannleg, kjarkmikil. — Allt sýndist boða að í honum væri ekki einúngis gott, heldur og mikid mannsefni. — Pað stóð svo á Því — Þótt hann úngur væri og Þó eg naumast Þèkkti hann — að hann hafði gjørt mér meira gott enn eg honum. — Þetta leynibanð milli hans og mín gjørir mér hans fráfall enn Þá sárara. — Bjørn heitinn Pétursson var kominn skémra enn vel á veg, og, ad allra dómi, hinn mannvænlegasti — hann var og einka sonur foreldra sinna — hann var prýðilega gáfaður jafnlaginn til sérhvørrar Þekkíngar, ydinn og á-

stundarsamur, og gaf kénnurum sínum von bestu framfara — báðir voru þeir siðferðisprúðir, lífslegir og glaðlyndir, af kénnendum sínum eins og skólabræðrum elskaðir og mjøg svo tregaðir; Og allir vér hinir eldri syrgjum að Guðs akur hefur þar mist efni í ágjæta verkamenn.

Enn — þegar eg tala svona — þá finn eg, að mig dregur nokkuð til þess ángursemi hjartans á nálægri sorgarstund; því hinsvegar, er eg íhuga hve margir deya áðurenn dagsverkið er byrjað, eður áðurenn hálfnaðir eru dagar þeirra — þá géfst mér tilefni til að dáðst að auðlegð hans sem øllu stjórnar og ræður. — Fjøldi úngbarna deyr áðurenn liðinn er einn sólarhríngur; varla hafa þau byrjað, mørg hvør, að litast um og greina hlutina, að finna til ástar og endurgjalda hana, fyrrenn þeim er hamlað frekari framfara á þessari jørðu.

Hvað er þettað annað, en að Guð þarf ei á að halda øllu þessu lífi fyrir þenna heim? — Þessa sømu auðlegð vottar hann, svo sem stjórnari síns andlega ríkis á jørðinni, með því er hann kallar marga héðan á því reki, sem þessir voru burtsofnuðu úngu bræður voru á — og sýnir með því að hann gétur einnig mist héðan þá, sem útbúnir eru ágjætum gáfum og hafa alla hæfilegleika til að verða hans útvalin verkfæri. — Eg segi ekki að Guð með þessu vilji einúngis auðmýkja oss, svo vér sjáum hve lítt hann þarfn-

ast sérhvörs af oss; hann vill og með þessu lypta sálum vorum hærra, til þess trúnaðartrausts að hann aldrei bresti ráð til eflingar sínu ríki, samt að hans ríki sé víðar enn hér, og að hann ætlist til þess meiri atorku af þeim, sem hann lætur dvelja hér leingur: dauður einginn Drottinn! Þér — dýrð í þessum heimi tér — heldur sá sem líf þú lér.

Og — þannig sný eg nú málinu til yðar, elskulegu æskumenn! sem með svo mikilli rækt og elsku, einsog samsvarar hreinni tilfinníng óspiltrar æsku, tregið yðar dánu lífsfélaga á hinum fagra veigi vísdóms og dygða — þeir hlupu báðir kappsamlega á skeiðvellinum, en hafa nú þegar skeiðið hlaúpið — Guð vildi ei láta það verða leingur — þess vegna hefir hann og ætlað yður, sem hann unnir leingra lífs, að bæta heiminum, föðurlandinu, það upp, sem mistist við þeirra fráfall — Þeir voru í sammvinnu með yður, en — þegar einhvörjir verða kallaðir burt frá sameiginlegu verki, þá verða hinir, sem eptir eru — ef þeir eru trúir — að taka nær sér, og það því fremur sem þeir voru duglegri sem fráhvurfu. — Þegar einhvurjum verður burtukippt úr röðum hermanna, þá verða hinir sem hjá og með honum voru að þoka sér saman og reyna að fylla skarðið og snerpa framgaunguna — Þeir að vísu til að hefna félaga sins, en vér til að reisa honum þann minnisvarða, sem Guði er

þóknanlegri enn nokkur annar, því hann er bygður á helgum grundvallarsteini trúrrar skylduræktar. — Íhugið opt með sjálfum ydur hvørsu ágjætir menn og duglegir verkamenn Drottins þessir ydar brædur mundu hafa ordið, ef Gud hefdi viljad láta þeim verda leingra lífs audið, og látið ydur svo fyrir eyrum hljóma að þér, sem einnig hafið vígt ydur til þjónustu í Guds akri, erud af herranum víngardsins kalladir til að fylla þeirra skard, ekki einúngis með því að vinna eins og híngadtil, þó vel hafi verið, heldur og með því að taka enn þá nær ydur og bæta á ydur þeirra starfa, svo að skadinn megi verda bættur fødurlandinu. — Það er ydar kallan, ekki einúngis með sárri hlutteknúngu að gjøra þeirra dauða að ydar dauða, heldur og miklu fremur, að gjøra þeirra líf að ydar lífi. — Þannig kvedja skólans lærisveinar sína mistu og ástkjæru brædur!

Athugið enn fremur, úngu brædur! hvørsu óstødugt lífið er, hvørsu grøfin liggur opt nálægt æskunnar blómsturreit — daudinn er ætíð nálægt lífinu bædi í tímanl. og andlegum skilníngi — að deya er eitt og þó tvennt. — Sælir eru þeir sem deya í Drottni, óspiltir af vondum heimi, hans ginníngum, dæmum, aldarhætti. — Sælir eru þessir voru dánu ástvinir, því hreinhjartadir voru þeir, og — hreinhjartadir munu Gud sjá — þessvegna munu þeir ei daudann

smakka ad eilífu. — Én Þér, sem standid enn á lifandi manna landi, í æskublóma lífsins minnist lífsins fallvaltleika, verid ei latir í því sem Þér eigid ad gjøra, vinnid medan Gud géfur ydur daginn, því nóttin kémur þá einginn fær adhafst. — Naumur er tíminn, en mikid er ad vinna, því er ei tímann burt ad géfa. — Gleymid ei heldur varhygdinni, þeirri dygd sem vardhaldseingill vor, edur betri madur, allajafna brýnir fyrir oss, þar sem vér erum staddir innanum svo miklar hættur í þessum heimi bædi til lífs og sálar. — Vér eigum þar allajafna vid daudann ad berjast bædi hid innra og hid ytra. — Gud vardveiti ydur alla í þessari baráttu frá hvørskyns slisum til lífs og sálar, og géfi ydur ad sjá glada og ávaxtarsama elli. — Æ þess vegna þá flý, þú æskumadur! lystingar æskunnar og gjæt hjarta þíns med alúd. — Legg von þína og forløg í Guds hønd. — Fulltreyst eingu, hvørki heilsu, krøptum, vitsmunum né lífsstundum. — Fulltreyst eingu nema Gudi! —

Vér gétum ei annad enn einnig hugsad til hinna fjarlægu, Ekkjunnar og Foreldranna, sem misst hafa einkasyni sína. — Vér gétum ei læknad þeirra sundurkramin hjørtu — Þad er Guds eins — en vér leggjum þeim þessi ord í munn: Drottinn gaf og Drottinn tók, lofad sé nafnid Drottins, og næsta mikil huggun liggur

í þessum hjartnæmu og djúpsæru orðum. — Missirinn er því meiri sem gjöfin var meiri — en — hvör gjöf er meiri og fullkomnari enn efnilegt og gáfað barn? — Nú spyr eg: hvört er betra að hafa ekki átt svo góða gjöf, og þurfa því ei að missa, eður að hafa átt og missa? — Sérhvör af andanum fæddur mun svara, að sérhvörja góða gjöf vill hann heldur hafa átt enn ekki átt, og því betri og fullkomnari sem hún var, þess fremur rekur minni til hennar, en — alla þá stund vér lifum, er gleðileg endurminning oss til hugsvölunar, svo að sorgar orðið: „Drottinn tók" verður allajafna í huganum að útleggjast með stöðugu tilliti til fagnaðarorðsins „Drottinn gaf" — og liggur um leið falið í þeim orðum: að það sem Guð géfur glatast aldrei — hann tekur það — það er ei tynt, hann geymir það. —

Nei, lífsins æðsta böl er ekki að missa góðar gáfur, heldur hitt að hafa ekki eignast þær — Þegar menn missu þeirra hafa menn að vísu hrygð, en sú hrygð skal snúast í fögnuð. — Þetta eru fyriheitisins orð, þetta eru einnig orð allrar huggunar. — Drottinn gaf og Drottinn tók, vegsamað sé nafnið Drottins! — Já vegsamaður sértú, faðir allrar náðar og miskunar fyrir það, er þú veittir þessum, sem svo snemma á fögru æskuskeiði máttu skilja hér við, að heiðra þig þann tímann sem þeir lifðu með sómasamlegri

breytni og laungun til ædri þekkíngar. — Láttú rætast á þeim fyrirheiti náðarinnar og lækna sorgbitin hjörtu með trúarinnar ædri hugsvølun, svo þau í auðmýkt beigi sig undir þinn føðurlega vilja.

Að lyktum biðjum vér þig að blessa og varðveita þær byggíngar þínar á jörðu, sem hvað hæðst mæna uppí hæðirnar, og í hvørjum þú geymir lífsins æðstu helgidóma: þína kyrkju og þinn skóla, svo að þitt verk á jörðinni, og einkum hér á meðal vor, meigi jafnan eflast og aukast — blessa þenna skóla, kénnendurna sem orðið flytja, og lærisveinana sem það heyra, að þeir meigi vaxa í allri þekkíngu og bera hundraðfaldann ávøxt. — Lát þá snemma hugsa til þess, að þú hefir kallað þá til að verða verkamenn í þínum víngarði, og géf þeim altífrá æsku að búa sig undir með námfýsi og ástundun en umfram allt með dygðugu, ástúðlegu og gjætilegu framferði, eins og þeim sæmir, sem þú hefir útvalið þér af heiminum!

Drottinn! blessi þig og varðveiti þig! Drottinn! láti sína ásjónu, lýsa yfir þig, og sé þér náðugur! Drottinn! upplypti sínu augliti yfir þig, og géfi þér frið! Amen.

---

## Ræðan í kirkjunni.

Drottinn! í þinni hendi standa vorir tímar; kénn oss að telja vora daga so vér verdum hygnir til sáluhjálpar og vel vidbúnir þegar þú kallar og segir: komið optur þér mannanna børn; gladir við þá hugsan að þú kallar oss á hentugum tíma, hvert sem vor ár eru ordin mørg eða fá, og flytur oss, þegar vér høfum lært að óttast þig, til betra lífs heldurenn þetta er, jafnvel þá það er sem gledilegast.

Grátið ei yfir þeim sem dáinn er; en grátið yfir þeim sem burt fluttir eru, því þeir munu aldrei framar sjá sitt føðurland. (Jer. 22, 10.) Þannig komst Spámaðurinn Jeremías að orði í tali við sína landsmenn, þegar nokkrir af Gyðíngum voru fallnir í stríði við Kaldeu menn, og nokkrir fluttir í þrældóm úr føðurlandinu í óvinaland. Það sorgar atriði sem hér er fyrir nokkrum døgum ordin vor hlutdeild; sviplegt burtkøllun tveggja efnilegra Skólans lærisveina, minna mig á þessi Spámannsins orð: þar eð vér nú støndum að útfør annars þeirra burtkølludu og eg, eins og síður er til, verð yfir líkum að tala, enn þótt eg hefdi heldur sem Davíð, viljað þegja og tala ekki. — Vér skiljum ekki svo áminnst orð Spámannsins: Grátið ei yfir þeim sem dáinn er, sem hann vildi ei leyfa mønnum að gráta þá dánu, náúnga, vini, landsmenn, únglínga efnilega,

kurtkallada í blóma æskunnar, eda uppbyggilega menn sem falla frá á bezta aldri, eda foreldri margra afkvæma. Því náttúrunnar lögmál þrýstir hverju manns hjarta til hluttekníngar í þessháttar atburdum. Næktar, vinskapar og trygda tár, þegar so ber undir, eru þó ætíd prýdi þess sem eptir lifir; enn þótt þau, eginlega sagt, ekki vidkomi þeim dána, þau votta söknud, votta þær hjartans tilfinníngar sem hverjum manni er sómi, ad, auk þess ad þau eru þad sem fyrst og best veitir hugsvölun og léttir því vid ástvina missir þúngbúna hjarta af sorgarinnar byrdi. Ord Spámannsins benda ad eins til þess, ad hann áleit kjör þeirra sinna landsmanna sem dánir voru betri enn hinna sem herteknir voru fluttir í óvinaland til ad þrælka þar án vonar um heimkomu í födurlandid, og eru þá hans ord líkrar meiníngar og þau sem vor Endurlausnari taladi þegar hann bar sinn kross út úr borginni Jerúsalem, og mikill fjöldi fólks og kvenna geingu út med honum grátandi. Þessi ord: *grátid ei yfir mér heldur yfir ydur og ydar börnum.*

Þad er ekki einasta náttúrunnar krafa ad gráta ástvini, og kénna til þess sem sorglegt er, heldur er oss í Guds ordi leyft ad syrgja; einasta tekinn vari fyri því ad syrgja ei eins og þeir sem einga von hafa; en þó ástvina missir sé sár, sárastur þeim sem næst er höggid, þá munu allir játa, ad margt enn sorglegra enn daudinn géti

komið fyrir ástvini. Það er alkunnugt að Guðs orð kallar þetta líf mannsins útlegð; og það var einmidt útlegðin sem Spámaðurinn í áminnstum orðum áleit verri enn dauða. Í Guðs orði er annað líf kallað vort föðurland; sé það nú sorglegt að komast úr sínu föðurlandi í útlegð, þá hlýtur hitt að vera gledilegt að komast úr útlegð heim aptur í föðurlandið, og reynslan hefir þrásaldlega sýnt, að sú heppni gladdi innilega margt manns hjarta, og hefir þó einginn átt það föðurland á þessari jörðu, sem géti komist í nokkurn samjöfnuð við það föðurland sem oss í trú vorri er vísað á. Vor borgarréttur er á himnum segir vor trú oss, og gledileg tilhugsan er að vita sína ástvini þángað flutta, frá því margvíslega lífsins andstreymi, hvar hvörki skal til vera synd né sorg né dauði og að þeir eru búnir að ljúka því af sem er erfiðast. Og við hvað er í raun réttri hér að skilja? við lífið? það verða nú allir að hafa, því fyrr eða seinna sækir Drottins öblugi eingill, sem heitir dauði, hvörn þann sem neitt hefir af jarðarinnar gróða. Við hvað er að skilja, spyr eg enn aptur? við lífsins fögnuð? En er þá manna líf eintómur fögnuður? og taki dauðinn oss frá fögnuðinum, svo tekur hann oss líka frá lífsins raunum, og skjaldan mun sá fögnudur veitast hér á jörðu, sem ekki sé blandinn einhverri beiskju. Unglíngurinn þekkir ekki lífsins anmarka, honum finnst lífið eintómt inndæli, þess

raunalegra er fyrir hann ad missa þessa inndælis? En er nokkud ad því ad verda hédan kalladur ádurenn menn vakna af þessum tælandi draumi? og þeir sem muna nokkud til sinna æsku ára géta vitni umborid hvert þau hafa ekki líka sínar raunir, hvert þau eru gledilegri enn hin sem á eptir koma, jafnvel gledilegri en þau, sem flestir segja um: þau þóknast mér ekki? Plágast ekki æskan stundum af kvíða, stundum svikulli von og stundum áhyggju, rétt eins og ellin? Og gérum nú ráð fyrir ad lífid á únga aldri, væri eintómt inndæli; hvør gétur ábirgst ad þau ár sem á eptirkoma verdi eins gledileg og þau sem lidin eru? Máltækid segir ad einginn viti sína æfi fyrri enn øll er, og fyrri alda spekíngur hélt, ad einginn mætti sæll kallast fyrir sitt endadægur. Þó allt fari sem best, (og allir vita, ad ýmsu eldir) framan af æfinni, er hitt alkunnugt ad heimurinn tekur vel vid gestum, en skilur ekki alltént eins vel vid þá; og hvad segir svo Ritníngin um manna líf? Segir hún ekki: hafi þad verid kostulegt svo var þad mæda og erfidi, hafi þad þá ekki verid kostulegt, og þá ei heldur mæda og erfidi, var þad þá ekki optast volædi? Því hefir einhver merkismadur látid til sín heyra þessi ord: Sá inndælasti partur af minni æfi var sá er eg svaf. En hvad vard svo af lífsins framkvæmdum, sem og meiga reiknast lífinu til ágjætis? Lítid liggur nú eptir suma sem leingi lifa. Ekki eru heldur allar framkvæmdirnar til góds, og ekki sá øll

góð áform framgáng; en hvað sem þessu líður so getur eingin starfað leingur enn dagur tilvinnist. Það líf heitir heiðurlegt hvert sem það er lángt eða stutt sem leið heiðurlega. Af únglíngnum heimtast ekki öllu meira enn að hann hafi numið upphaf vitskunnar, og raunar þá líka endir vitskunnar, þá vitsku sem ekki er síður þénanleg fyrir það komanda líf heldurenn þetta líf. Hvertir þessa stutta lífs tínast ekki þó lífið tínist; og lífið tínist ekki heldur í raun og veru, því dauðinn er inngángur til lífsins, til ens réttkallaða lífs; og hver sem á únga aldri burtkallast og hefir numið upphaf vitskunnar, og tekið með aldri framförum í vitsku og náð hjá Guði og mönnum, eins og þessir únglíngar, sem nú voru héðan kallaðir, þeir eptir láta hér á jörðu heiðurlegt mannorð, og inngánga í herrans fögnuð, því þeir brúkuðu vel sína stuttu æfi.

Grátum þá ekki þá sem dánir eru. Enn er samt ekki tilefni til að gráta vegna þeirra sem lifa, sem næstir standa þeim efnilegu úngu mönnum er frá eru fallnir, föðurs móðra og systkyna! Eg veit að margir, jafnvel óviðkomandi hér í nánd, ef nokkur væri óviðkomandi, hefir tekið sér nærri það sem skéð er, og sá er einginn mannkjærlegur sem lætur slíkt ekki á sig fá, ekki hlýðinn þessu boðorði kristinndómsins: grátið með grátendum. En hvað stoðar þá grættu

ad gráta með þeim? Hver gétur hér huggað nema sá eini: Guð allrar huggunar.

Send þú Drottinn þinn anda, sem og kallast huggari, í hjörtu þeirra sem nú gráta sín afkvæmi og ástvini, glæð með þeim trú eilífs lífs svo að hún géti hrest af þeim; lát þá tilhugsun gleðja foreldrana, að þau þeirra afkvæmi sem héðan eru flutt, voru af þér géfinn; að þau undir þeirra höndum lærðu að óttast þig og gjöra hvað rétt er, og eru með góðum orðstýr búinn að enda sína jarðnesku vegferð. Lát þeim til hugar koma að þó þeir nú ekki skilji það sem skéð er, skuli þeir skilja það seinna, þegar allt safnast aptur í eitt, sem hér er aðskilið. Amen.



## Leidréttingar og prentvillur.

Bls. *V*. l. 10. les Stefjamál: 23, vegginn: 24, Kirjalax. *VII*, 8, Lv les LV: 23, hleypt. *IX*, 1, vísur: 25, ímynda. 14, 22, tína. 15, 3, búiz: 25, ýngvi þjóðar. 17, 28, saurgu. 18, 29, auki. 19, 14, skýja: 25, meginþúngar. 22, 16, gerla. 24, 1, sýnaz. 30, 28, eyða. 33, 18, skiljumz. 37, 18, vízku. 43, 20, menn. 52, 3, lísgadra anda er niðurlag vísu, því ætti lángstrykið, sem þar er fyrir neðan, að standa fyrir ofan. 60, 26, 6 les, 5. 61, 4, yfirþengill. 63, 28, Dag mærirr. 66, 11, ofþíngs; 26, snjallr. 67, 25, skolu. 71, 16, viys: 17, dýrðar. 77, 7, árs: 23, sárs les, árs. hárs l. háls: 26, les Has. 33. 78, 5, setjist stryk eptir láðs: 8, les Has. 40.

# Tabla

**Um þad, hvørnig þeim sem útskrifast úr Bessastada Skóla, í hvørri Lærdómsgrein útaf fyrir sig tekist hefir í því opinbera Lærdómsprófi 22—23 Mai 1844.**

| Nøfn Lærisveinanna. | Latína. | lat. Stíll. | Gríska. | Danska. | d. Stíll. | ísl. Stíll. | Hebreska. | Utsk. N. T. | Trúarlærdóm. | Sagnafrædi. | Landaskipun. | Rúmm. frædi. | Talnafrædi. | Høfudtala. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1. Arni Gíslason. | ág. | vel. | dáv. | dáv. | vel. | vel. | ág. | dáv. | dáv. | dáv. | ág. | ág. | ág. | 91. |
| 2. Lárus Johnsen. | vel. | vel. | vel. | dáv. | vel. | dáv. | dáv. | dáv. | dáv. | ág. | ág. | dáv. | dav. | 84. |
| 3. Bergur Haldórsson. | vel. | vel. | vel. | vel. | vel. | dáv. | dáv. | dáv. | dáv. | ág. | ág. | ág. | vel. | 83. |
| 4. Gudmundur Bjarnason. | vel. | vel. | vel. | vel. | sæmil. | vel. | dáv. * | vel. | vel. | ág. | ág. | ág. | dáv. | 79. |
| 5. Snorri Nordfjørd. | vel. | sæmil. | vel. | vel. | vel. | vel. | vel. | dáv. | vel. | sæmil. | ág. | dáv. | ág. | 74. |

Skíringargrein. Stjarnan (*) þýdir ad Gríska er lesin í Hebresku stad.

Bessastada Skóla þann 23ja Mai 1844.

**Steingrímur Jónsson.**

**A. Helgason. H. G. Thordersen. J. Jónsson. H. Scheving. S. Egilsson. B. Gunnlögsen.**

# Yfirheyrslan

skér í þessari röð þann 22—25ta og 28. 29. Maii 1844.

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Midvikudag | f. m. | 8 — 10½ | Eb. | Lærisveinar | reyndir | í Latínu. |
| | | 10½ — 11 | Nb. | — | — | í Landaskipunarfrædi. |
| | | 11 — 12 | Eb. | — | — | í Kristil: trúarlærdómi. |
| | e. m. | 2 — 6 | Eb. Nb. og þeir s. útskr. r. | | | í Latínskum stíl. |
| Fimtudag | f. m. | 8 — 12 | Nb. og þeir sem útskrif. r. | | | í Íslendskum stíl. |
| | e. m. | 2 — 6 | Eb. Nb. og þeir s. útskr. r. | | | í Dönskum stíl. |
| Föstudag | f. m. | 8 — 9 | þeir sem útskrifast reyndir | | | í Latínu. |
| | | 9 — 10 | — | — | — | í Grísku. |
| | | 10 — 11 | — | — | — | í Hebresku. |
| | | 11 — 12 | — | — | — | í Dönsku. |
| | e. m. | 2 — 2½ | — | — | — | í Landaskipunarfrædi. |
| | | 2½ — 3½ | — | — | — | í Kristil. trúarlærdómi. |
| | | 3½ — 5 | — | — | — | í Reikn. l. og stærdarfrædi. |
| | | 5 — 6 | — | — | — | í Nýa Testamentinu. |
| Laugardag | f. m. | 8 — 9 | — | — | — | í Veraldarsögu. |

9 og svo framveigis dómur lagdur á framfarir þeirra er útskrifast.

Eptir Hvítasunnu hátídina:

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Þridjudag | f. m. | 8 — 10½ | Eb. | Lærisveinar | reyndir | í Grísku. |
| | | 10½ — 11½ | Nb. | — | — | í Bibliusögu. |
| | | 11½ — 12 | Eb. | — | — | í Landaskipunarfrædi |
| | e. m. | 2 — 3½ | Nb. | — | — | í Latínu. |
| | | 3½ — 4½ | Eb. | — | — | í Veraldarsögu. |
| | | 4½ — 6 | Nb. | — | — | í Reiknings list. |
| Midvikudag | f. m. | 8 — 9 | Nb. | — | — | í Veraldarsögu. |
| | | 9 — 10 | Eb. | — | — | í Reiknings list. |
| | | 10 — 12 | Eb. og Nb. efri hluti reyndir | | | í Hebresku. |
| | e. m. | 2 — 3 | Eb. | Lærisveinar | — | í Dönsku. |
| | | 3 — 4 | Nb. | — | — | í Dönsku. |

